Kgs Bibl. III, 403

Biblia laicorum
þad er
Leikmanna biblia
(Hólum)
Anno M. D. XC. IX

(niðurl.
þryckt á Hólum 21. dag Febr.
Anno M D XC IX.

(vantar 1 bl. (titilbl.) framan
og 9? blöð aptan.

## Aullum Kiennemønnum og Guds Ords Pienørum j Hola Stigte.

Naad og Fridur af Gude/ fyrer Jesum Christum/ vorn liufa Lausnara.

Goder Brædur/ og Medpionar j Drottne/ Þennan Bækling jnnehalldanda Skyring og Vtþyding hins litla Catechismi/ þess Loflega og Dyrlega Guds Mans Martini Lutheri hefur mier virst Naudsyn wt ad leggia a vort Modurmaal. Þuiad þo þesse Lærdomur hann eige jafnlega ad vera predikadur/ so sem þad er boded og bifalad j Ordinantiunne/ þa giefur þo Raun vitne/ ad þad er midur giort enn skyllde. Þar med/ þar sem Þrestar hafa fleire Kirkiur enn eina/ þa verdur soddan Predikonum traudliga vid komed so til Gagns verde. Klaga og marger þar yfer/ ad þar sie

ecke neitt sierlegt Form / ecke sierlega Vtlegging þeirra Greina og Orda sem þesse litle Lutheri Catechismus hefr jnne ad hallda. Hafa og ecke aller Prestar þar Efne og Asiundan a/ þennañ Lærdom so vt ad leggia og lida sem þørf krefur fyrer þa einfølldu/ huar af þad kiemur/ ad þott þesse Lærdomur/ sem ad er Sum̃a Mergur og Jñehalld allrar Heilagrar Ritningar/ ætte ad vera sierhuørium christnum Mañe alkuñugur og skilianlegur/ þa reyneſt hier þo ad vera ſtoor Breſtur a ferdum/ bæde j hia þeim yngri og elldre. Og eñ þo ad þessum einfallda litla Catechismo Lutheri verde nued ad Vngdomenum/ so ad hañ kañ hañ fyrer vtan vñdast j Sueitum/ og j hia mørgum godum Bændum sem Guds Ord elska og jdka lata j þeirra Hwsum/ þa eru þo allmarger þr sem þar skilia harla lijted af/ þo þeir lese Catechismum.

Nu vppa þad/ ad nøckur Boot og

leidriett

Leidrietting mætti verda a þessu Efne/ sem er Fafræde Almugans/ og ad hann mætte fa enn liosara Skilning a Guds Orde/ og skilia betur Ord og Atkuæde þessa naudsynlegasta Lærdoms/ sem er Catechismus/ huør ed alldrei verdur noglega lesen/ lærdur nie astundadur a medan vier lifum j þessu Lÿfe/ þa læt eg nu j Nafne Drottins þennan Catechismi Bækling prentast a vort Modur mæl/ vtlagdan wr Saxuersku Mæle/ og j önduerdu skrifadan af halærdum Manne sem heiter Johannes Aumannus/ Superintendens til Syling j Lande Saxen.

Þennan sama Catechismi Bækling Dedicera og til seige eg ydur sierdeilis og einkum/ þier sem setter erud yfer er Christenna Manna Sæler/ og þeim eiged ad kienna og vnderuÿsa/ Et pro quibus vobis reddenda est Ratio coram Deo, iuxta illud. Sit anima tua pro anima illius. Ego Sanguinem illorum

um, & c. So ad þier mættud hafa hier nøckra Manuductionem Leidsøgu og avijsan/ huornen þier eiged Vngdoͦmenum ad kienna og vnderuijsa/ riettelega ad skilia þeñañ Lutheri Catechismum/ bæde jnnan Kirkiu og vtan/ einkannlega þa þier visiterid og fared vm ydar Þyngaar/ Folkenu ad kienna/ og Børnonum/ ædur enn þau eru til Sacramentis tekeñ/ epter Confirmatiuñe/ so sem ydur er og hefur vered bifalad.

Þessum Spurninga greinum er sundur skipt i nøckrar Lectiones Parta greiner edur Lexiur sem Vngdomenum skal til hallded verda / daglega ad lesa eina Lexiu hier af edur tuær.

Og eg er j vissre von þar vm/ ad huar hellst ad þesse Catechismus hañ verdur leseñ/ jdkadur/ med Hondum hafdur og a Hiartad lagdur/ þa mun nøckur god ur Auoxtur epterfylgia j hia Vngdom enum og þeim einfølldu.

Ad sijdustu þa er eg enn nu aminnande

ande og vmbidiande alla froma Kieñe-
menn og Sæluſorgara/ ad þier fyrer
Guds ſkulld þeſſum Lærdome fram̃ fyl-
ged med allre Tru og Dygd/ og vered
jafnlega minnugier þeirra Orda ſem
Guds Ande hefur talad fyrer Munn
S. Pꝏls Poſtula/ Acto. 20. Cap.
Hafed gꝏt a ydur ſialfum/ og a allre
Hiørdenne yfer huøria Heilagur Ande
hefur ydur ſett til yferſionar Manna/
ad ſtyra Søfnude Guds/ huørn hann
hefur ſier mz ſÿnu Blode vtuegad. Og
enn ſeiger S. Pꝏll 2. Thimoth. 2.
Legg þu kapp þar a ad audſyna ſig fyr
er Gude riettelegañ og oſtraffanlegañ
Verkmañ/ ſa ed riettelega j ſundur lide
Sañleikſins Ord. Item Cap. 4. So
vitna eg nu fyrer Gude/ og Drottne Je
ſu Chriſto/ ſa ed koma mun til ad dꝏ-
ma Lifendur og Dauda/med ſiñe Aug-
lyſingu/ og med ſÿnu Rÿke/ predika þu
Orded/hallt þar ad/ huørt þad ſkiedur
j Tÿma/edur Otÿma/ Straffa/ogna/

amiña med allre Polenmæde z cf. Þess um og þuilijkum Ordum hins Heilaga Anda/ ber oss ecke ad gleyma.

Þañ lifanda Gud er eg af øllu Hiarta bidiande/ ad hann safne sier Christeligre Kirkiu hia oss/ og vorum Epterkomendum/ aukeþana og efle fyrer sanna Kynning sinna Blessadra Orda.

Þeim sama eilijfum Gude er eg yd ur alla bifalande Amen Skrifad a Holum, I. Dag Januarij hins nyia Aars
.1599.

Gudbrandur Thorlaks Son.



I.

## Barn mitt/ Huad ertu?

Andsuar:

Epter minne Nattwrlegre og Helldslegre Fædingu þa er eg ein aum syndug Maññeskia/Enn fyrer Endurfædingena/ og vegna Truareñar a Christum/ þa er eg eiñ Christeñ Madur.

Huør er þijn Huggun og einka Von a Jördunne?

Andsuar.

Þesse/ Ad eg j mijnum Barndome hef vered skijrdur vppa Nafn mijns Frelsara Jesu Christi/ og ad eg mijna Von ✝ mitt trunadar Traust set alleinasta til hans med riettre og sañre Tru.

Huör er Riettchristeñ?

Hañ sa sem epter Bifalningu ✝ Bode Herrans Christi skijrdur er j Nafne Heilagrar Þrenningar/ truer a Jesum Christum/ og er hlyden þui Heilaga Evangelio.

Huar af veistu þad ad þu sierd christeñ/ ✝ ad þu meiger fullkomliga forlaata þig vppa Herrañ Christū?

Av. Þad

Pad seiger mier ecke mijn blind Skynseme/ huiad j Andlegū efnum ba veit hun eckert/ Helldur hefur Gud mier pad openberad j sijnu Orde.

### Huad er Guds Ord?

Guds Ord er sa Lærdomur sem kienner oss ad vita huör og huilijkur Gud er/ og huör ad sie hans Vilie. Þetta tuent hefur Gud fra Heimsins Upphafe openberad fyrer Spamenena/ Christū + Postulana. Og þta hefur hū lated innskrifa j þa Bok sem kallast Biblia.

### Nuar fyrer hefur Gud læted sitt Ord innsetia og skrifa j þa Bibliu?

Til þess/ Ad pad skyllde j hia Epterkomendönum vera ein viss Regla og stadföst/ vppa þann hreina og sanna Lærdom/ j mote öllum Villum og röng um Lærdome.

### Kantu ad seigia mier/ huør ad sie Sumā/ Mergur + Innehalld Guds Ords/ og allrar Bibliunnar?

Ja/ Pad giet eg vel giört/ Huiad tvt af sierligre Guds Mysk un þa er pad j stuttu

j ſiutta Maale fÿrer Heilagañ Anda/ af allre Heilagre Ritningu ſamandreiged/ og ſett j þennañ litla Catechiſmum.

## II.

Hvad þyrer Ord er þad/ Catechiſmus?

Þad er ecke Latina/ Þyſka/ Danſka nie Norrœna/ Helldur eitt Griſkt Ord + merker ſo mÿked ſem Lærdom Vnderuÿſan/ þa einn kieñer ødrum muñlega/ og hlÿder hønum yfer aptur/ hvad hann hefur lært.

Þviad þeſſe Sidur var j Fyrſtunne/ næſt epter Poſtulaña Tijd/ ad þeir ſem villdu medtaka chriſtna Tru + læta ſkij ra ſig/ þa voru þar til ſetter ſierleiger Kieñefedur/ ſem ſoddan Møñum ſkylldu vnderuÿſa og kienna Grunduøll og Greiner chriſtelegrar Truar/ og þar m3 ad hlÿda þeim yfer jafnframe/ hvad þeir Lærdu og hvørnen þeir ſkilldu þad þeir lært høfdu/ Og þeſſer Lærefedur køllduſt Catechete/ a Griſku. Hiner ad rer ſem þetta lærdu/ + hvørium ſo var kient og vnderuÿſad/ hvørt helldur þeir voru vnger edur gamler/ þeir køllduſt Catechumeni/ þad er ſo mÿked ſem Catechiſmi

Huad er þa Catechismus?

Catechismus er eitt stutt og einfalld legt Innehalld og Mergur og Summa allrar Heilagrar Ritningar/ huar inne samanbunded og tekeð er allt þad sem einum christnum Manne er Þörf og Nauðsyn ad vita og trua/ so hañ verdi Saaluholpen.

Er Catechismus nockur nyr Lærdomur?

Fiærre er þui.

Huør hefur þa giørt edur samsett Catechismum?

Su Heilaga Haleita Guddomlega Þreñing/ Gud Fader/ Sonur/ og Heilagur Ande.

Huør hefur þeñañ Catechismum best vtskyrt og vtlagt?

Sa agiæte Guds Madur/ og kieñe fader Doctor Martinus Lutherus.

Kallast Catechismus ecke ødru vijs/ og hefur hann ecke fleire Nøfn?

Ja / Hann kallast Biblia Laicorum / þad er Leikmanna Biblia / Hann kallast og so Barna Lærdomur / Hann kallast minne Biblia.

Hvar fyrer nefnest hann so?

Ecke vnder þa Grein / ad hañ eige ecke ad læra nema Børn og Vngmenne. Þuiad aller Menn vnger og gamler / leiker og lærder / þeir hafa nog ad giora / alla siina Lijfdaga / ad læra hann / og fa þo alldre full lært hann. Helldur kallast hann so / þar fyrer / ad allt þad einum christnum Manne er Þørf og Naudsyn a ad vita wt af Christo / Huad mañ a ad trua / Hvørnen hañ eige siinu Lijfe og Framferde ad hegda / þeta er allt saman hid einfallldlegasta hier innsett og bunded j þeñañ Catechismum / so ad eitt BARN / sem er siø vetra eda atta / þad gietur audvelldlega þeññañ Lærdom lært og numed.

J annañ mata nefnest hañ so þar fyrer / Ad þeir enu Christnu eiga ad blijfa vid þennañ einfalldleika / grunda ecke nie stunda vppa þa Hlute / sem of hacr eru / so þeir þar fyrer falle ecke j Villu

og Hneyxlanir / sem marga hefur heit og skied / sem ofhætt hafa stundad.

I Pridia mata / nefnest hañ þui so / ad aller þeir sem hrosa sier þar af / ad þeir sie Guds Börn / og hyxa sier Sæluholpnum ad verda / þeir hliota ad kunna þeñañ Catechismum / og skilia hañ / og alla sijna Daga ad hyxa vm hann / + jdka sig j bönum.

## III.

### Fyrer huoriar Greiner er skylldugt og naudsynleg't þessum Catechismo oaplætanlega þrañ ad þylgia j Kirkium og Skolum / og hia Bændum og Buande mönnum / og öllum ödrum?

Þar eru þriar Greiner til.

1 Su hin fyrsta er þesse / Ad þad er Guds Bod og Vilie / Hañ vill so hafa þad. Og þeir sem þad giöra / þeim lofar hañ myklu Goodu j sijnu Orde. Hinum ödrum sem þad ecke giöra / þeim hootar hañ Reide og Refsingum / bæde þessa Heims og añars.

2 Þar næst / þa er þetta skylldugt þar fyrer / Þuiad Madureñ er þar til skapadur

## Huør er su fyrsta Høfudgrein hins Heilaga Catechismi?



Pessi Figura heyrer til 31. Capitula Exodi

Pau Heilögu tiu Guds laga Bodord.

## Hafa pau tiu Bodord ecke annad Nafn?

Ia / Pau kallast Guds Lögmæl.

### Huad er pa Guds Lögmæl?

Guds Lögmæl er ein eilijf og oum breytanleg Viska Guds / huória hañ openberade j Sköpun vorra fyrstu Forelldra

ra / og þeim hana jnnrætte og jnnplant- ade / huórta Viſku hann hefur oprſinnes amalgad og endurnyiad. Og j þeſſum Vÿsdome kienner hañ oſſ og bydur / huó rnen vier eigum ad lifa / huad vier ſkulum gióra / og ecke gióra / Og hañ heiter þeim óllu Goodu / ſem fullkomlega hlydne veita þeſſum hans Bodordum. Enn hinum ódrum ſem þar a mote ſynd ga / þa hootar hañ ſinne Reide og eilyf um Refſingum / wtan ſo ſie / ad þeim ver de Syndernar fyrergiefnar / fyrer Herrans Jeſu Chriſti ſaker.

Quar fyrer eru þau tiu Bodord fyrſt j Catechiſmo?

Af þui ad ſa enn Chriſtne / hañ hlytur yfer alla Hlute fram̃ ad vita / huórnen hann a ad lifa / ſo ad Gude lyke / Og þetta hid ſama kieña Guds tiu Bodord þar fyrer ſtanda þau fyrſt j Catechiſmo.

Þar næſt. Nær Madur hefur ſyndgaſt / þa hlytur hañ fyrſt wt af Lógmalenu og j Lógmalenu ad ſkoda ſijna Synd ſo ſem j ódrum Speigle / og þeckia og vidurkienna hana / ædur enn þad hón um verdur nóckur Hialp veitt.

Huar

## Hvar hefur Gud hellst amalgad og endurnyiad sitt Lögmal / hvört han inplantade j Hiörtu þeirra Fyrstu Forelldra?

A Fiallenu Sinai / a Hvijtasunnudag / þa ed 50. Dagar voru lidner fra Paskum / og Moses hafde wt leitt Israelis Sonu af Egipta Lande / þa endurnyade Gud þetta Lögmal fyrer sinn trua Þienara Mosen.

## Med hvorium hætte hefur han openberad sitt Lögmal?

Gud han skrifade þad med sijnum eigen Fingre / Og med Elldingum og Skruggum / og hvellum Lwdra hlio dum / med Elldgange og Reyk / og Skialfta Fiallsins Sinai / liet hn þad fram setia fyrer Israelis Sonu.

## Hvar fyrer hefur han wtgiefed sitt Lögmal med soddan hætte?

Han vill þar med syna og lata sia Art og Natturu Lögmalsins / og þess Krapt / sem er / ad kunngiöra og openbera Syndena / so sem med annare Ellding / ad nidur sla og skielfa Mannsins

Samuisku / so sem med Skruggum og Reidarslögum / og ad brenna Mañeskiuñar Hiarta / so sem med einum Ellde Snögt ad seigia / ad skielfa og hræda Mañsins Sæl og Samuisku / so ad hun komest til Vidurkieñingar Syndareñar / og Guds Reide / og hrædest hañ.

## Huar a hefur Gud skrifad
þau tiu Bodord?

Vppa tuö Steinspiölld / eda tuær Steintöblur.

Huar fyrer hefur hañ þad giört?

1 Til ad avijsa og audsyna þar med ad vor Hiörtu þau eru [illegible]inhörd og hard ædug / og kunna ecke ad hlyda Gude nie hans Lögmæle / af Natturuñe til.

2. Þar næst þa avijsar Gud hier mz ad hans Lögmal og Bodord / þau skule ecke aftakast nie [illegible] verda / helldur blijfa allt til Veralldareñar enda.

## Þui hefur hañ haft tuær
Töblurnar?

Þuiad hann heimter ad oss j sijnu Lögmæle tuöfallda Hlydne / bæde Andlega og so lijkamlega.

Huörsn

Quørſu mørg Bodord eru a)
þeirre fyrre Tößlunne?

Þriu.

Quad kienna þau?

Þau kienna oſſ/ huórnen vier eig-
um ad haga og hegda oſſ/ vid GVD z
hans Ord/ huad vier giöra eigum/og
huad vier ſkulum fordaſt.

V.

# Vm þa fyrſtu Töf-luna Løgmalſins.

Huad kieñer oſſ hin þyrra Tablan?

Hun kieñer oſſ/ huórnen vier eigum
ad haga og hegda voru Hiarta/vorum
Muñe/ vorum Eyrum/og öllum Lid-
um og Limum vid Gud ſialfañ.

Þesse Figura heyrer til Exodi xxxij. Capitula



## Fyrsta Bodorded.

Huort er þad fyrsta Bodord?

**Eg er Drottenn Gud þinn/ þu skallt ecke hafa annarlega Gude fyrer mier.**

Huør er Meining og Mergur þessa Bodords?

Vier skulum Gud yfer alla Hlute fram̄

fram̃ offast og elska/ Og a hann einn ad trua.

Huorium heyrer til/ edur huorn snertur þetta litla Ord (þu) j þessum tiu Bodordum?

Þad snerter alla Menn/ og einn og sierhuórn/ ⁊ alla þeirra Nattwrn/ Huganer/ Ord og Giórder.

Ad huoriu eigum vier hellst ad giæta j þessu fyrsta Bodorde/ so ⁊ lijka j óllum hinum ódrum?

Ad tueimur Hlutum.

1 Huóriar ad eru þær Synder/ sem Gud fyrerbydur og bannar j sierhuóriu Bodorde.

2 Huór ad sie þau Gooduerk sem hm̃ bydur ⁊ bifalar j sierhuóriu Bodorde.

Huoriar eru þær Synder sem Gud fyrerbydur j þui fyrsta Bodordenu?

Þær eru allar jnnelucktar og folltnar j þessum fam Ordum/ Þu skallt ecke hafa annarlega Gude.

Huad er þad/ ad hafa annarlega Gude?

Adra Gude/ edur añarlega Gude ad hafa/ þad er/ad trua og treysta a nöck urn hlut annañ/ vtan alleina a þañ san na lifanda Gud.

Munu þeir vera nøckrer sem þad gióra?

Ja/Vissulega / Soddan er skied af öllum Heidingium/ Ja lijka eirnen af Guds Folke. Slijkt hafa Menn + giört j þeim Blinda Pauadome. S. Pall hañ seiger og eirneñ/ ad þeir sem eru agiarner/ þeir sieu Afgudaþienarar/ og þar fyrer hafa þeir og eirnen annarlega Gude.

Nuør eru þau good Verken/sem Gud heimter ad oss j þessu þyrsta Bodordenu?

Ad ottast Gud yfer alla Hlute/+ at elska hañ/og trua a hañ.

Huad kallar þu ad ottast Gud?

Gud ad ottast / þad er/ ad hafa hans Bodord alla tijma sier fyrer Augum med Sonarlegre Hlydne og Audmykt / og fordast Syndernar / hyxa vm Guds Reide j giegn Syndenne/ ottast hana og hrædast. Og þo nöckur kunne ad fal

la og

la og ſyndga/ ad rýſa þa vpp aptur ſtr ax/ og Bidia Gud vm Naad og Fyrergiefning.

Þui eigum vier ad ottaſt Gud?

Þuiad hañ hefur Aund og Lýkama huörs Mans ſier j Hende/ og allt anngad þad vier hófum/ Og j hans Magt og Vallde er/ad giöra oſſ Sæluholpna/ ed ur Fyrerdæmda.

Huad kallaſt ad elſka Gud?

Gud ad elſka/þad er/ad vidurkienna Guds Aaſt og Giæſku/ ſem hañ ſyn er oſſ/ Og þeſſ vegna ad hafa Lyſt og Glede og alla Aſtundan þar a/ad giöra þad ſem hónum er þægelegt.

Huörnen eigum vier Gud ad elſka?

Af óllu Hiarta / af allre Sælu / og af óllum Króptum / og af aullu Hugſkote voru.

Huar fyrer eigum vier ad elſka Gud?

Þuiad hann er vor elſkulegur Fader/ Og allt þad Gott ſem vier hófum þad hófum vier af hónum þeiged.

Huad er ad trua Gude og treyſta hónum?

Þad

Þad er/ ad setia alla sijna Von/ allt sitt trunadar Traust vppa hann/ j Nafne Jesu Christi/ og giefa sig hönum j Valld med öllu/ treystande vissulega þar vppa/ ad hañ mune oss epter sij nu Orde alldrei yfergiefa.

### Quar fyrer skulum vier hafa soddann Traust a Gude?

Þuiad hann er j sijnum Ordum og Fyrerheitum Sañordur/ Sañsögull/ so sem vor elskulegur Fader/ þar med og eirneñ Almattugur.

### Quar fyrer leggur Lutherus þesse Ord hier til/ Yfer alla Hlute?

Þuiad j þessu Lijfe/ þa eigum vier ad elska oss jnnbyrdes/ og huör ödrum ad trua/ Vier meigum og so lijka elska Gots og Peninga. Enn Gud skulum vier so elska/ Ad nær sem hañ vill/ þa sie um vier reidubuner þad allt saman ad yfergiefa hans vegna/ og hafa og hallda ecke nockurn Hlut a Himne og Jördu hönum jafnan/ eñ sijdur ædra.




Annad Bodorded.

Huört er þad annad Bodord?

Þu skallt ecke leggia Nafn Drottins Guds þijns vid Hegoma/ Þuiad Drottẽ lætur þañ ecke oreffstañ/ sem vanbrukar hans Nafn.

Huad

Vier eigum ad ottast og elska Gud/ so ad vier ecke bidium neinum Ills j hans Nafne/ ei helldur suerium vid þ/ eige Fiølkynge fremium/ eige liugum edur suijkium/ Helldur eigum vier Gudz Nafn ad akalla j øllum vorum Naudsynium/ þad til bidia/ og lofa/ og þui packer ad giøra/ z þ ad vidurkieñа.

Huar fyrer stendur þetta hia huøriu Bodorde/ Vier eigũ ad ottast og elska Gud?

Þuiad þad fyrsta Bodorded/ þad er so sem Kongur allra annara Bodorda/ og øll heyra þau þangad/ Og øll su Hlydne sem Madur veiter hinum ødrum Bodordum/ hun kiemur af þui fyrsta Bodorde/ z sprettur vpp/ af ast z Elsku til Guds (epter Hliodan hins fyrsta Bodords) so sem af ødrum vppsprettu Brunne. Og nema ad so sie/ ad good verken þau verde wt af Otta og Elsku til Guds/ þa eru þau ecke nema Hræsne/ og þocknast Gude ecke j nóckurn

þuiað þ̄ lætur Gud ecke oreffsad vera.

## Huad er Fiølkynge ad fremia vid Guds Nafn?

Ad taka sier fyrer / an Guds Skipanar og Bifalningar / med Guds Orde / og fyrer Krapt Gudlegs Nafns / ad vt rietta edur giøra nøckra þa Hlute sem ecke eru Natturleger / Ad vppuekia og brwka nøckra Skiepnu til þess / ad giøra ødrum Skada þar med / edur giørdañ Skada af ad taka. Item / Ad særa vid Guds Nafn Diøfla / Drauga og ad ra vonda Anda / edur adrar Skiepnur. Item / Ad hafa Særingar yfer Blode / Kueisu og ødrum Meinsemdum Manna / Og med huøriu mote sem Meñ van brwka Guds Nafn og hans Heilaga Ord / til Galldra og Giørninga / ꝛ annara Lækninga / þad er allt Synd j mote þessu ødru Bodorde.

### Huad er ad liuga vid Guds Nafn?

Ad seigia nøckurn Hlut ødru vijs eñ hañ er / ad þægia yfer Sannleikanum / Edur med huøriu mote sem Madr nefñ er edr vanbrwkar Guds Nafn til Osañinda / og ad dylia og hylia Synder og

Slæpe þar med.

**Huad er ad suikia vid Guds Nafn?**

Ad koma nockrum til ad trua / ad þad sie Guds Ord + Vilie sem ecke er / og koma hönum so j Synd og Skada. Item j Veralldlegum Mælum / ad giefa vond Rad og suiksamleg sijnum Naunga / og med huoriu mote sem Madur suikur annañ / med glyslegum Ordum / vnder Yfervarpe Gudlegs Nafns edur Sanleikans.

**Huadan kiemur þad / ad vier gietum so lifad / ad vier vanbrwkum ecke Guds Nafn?**

Þad kiemur alleinasta af Otta Drottens / Þuiad huör hann ottast Gud jafnlega / hañ fordast þad Straff sem Gud hefur lagt vid þetta Bodord.

**Huor eru þau good Verkeñ sem Gud heimter ad oss / j þessu ödru Bodordenu?**

Ad akalla Guds Nafn j öllum vorum Naudsynium / Ad til bidia þad / Ad lofa þad / og dyrka / ad þacka þui fyrer allt gott / og þad ad jata og vidurkien-

kienā og pryſſa:

Huad heiter ad akalla
Guds Nafn?

Ad hafa ſitt Athuarf til þeſſ ſanna og lifanda Guds / og hañ ad bidia vm alla gooda Hlute / Stundlega + Eilyfa / og ſtoduglega ad treyſta þar vpp a / ad hañ vilie ſoddan Bæner heyra / og ad veita þad hann er vm bedeñ / epter ſynum Fyrerheitum / vegna Medalgongu Mañſins Jeſu Chriſti ſyns Sonar / og vors Endurlauſnara.

Huad heiter ad bidia?

Þad er / ad hafa Samrædur edur Samtal vid Gud / af Hiarta / og hann ad bidia vm alla gooda Hlute Andlega og Lykamlega / med Sonarlegu trunad ar Trauſte.

Huad er ad lofa Gud?

Ad vyđfrægia og vtbera Sannleika Gudlegs Ords / og med Munnenum openberlega hñ ad medkieña + jata.

Huad er ad þacka Gude?

Ad ſyna Gude vilugа Hlydne / bæde

E iij. med

med Hiartanu/Ordõnum + Verkõnum/ og hõnum Packer ad giöra/ og prijsa hann fyrer veitta Velgiörninga.

Hvørier eru þeir Velgiørningar sem vier hellst eigum Gu- de ad packa?

Þad verdur oss kient i stuttu Máále/ i þeim þremur Hõfudgreinum voras christelegrar Truar/ sem er CREDO.

Hvad kallast ad medkienna Guds Nafn?

Pad er/ ad jata + vidurkiena Gud/ og hans Ord/ og allt þad Madur veit af Gude/ openberlega/ stadfastlega/ og læta ecke nöckra Ogn edr Skielfing hræda sig þar i fra.

Hvadan kiemur þad/ ad vier kunnum so riettelega ad þara med Guds Nafn?

Pad verkar Aast og Elska Guds/ Þuiad huör hann elskar Gud/ hañ talar allt Gott vm hañ/ og misbrwkar ei nie vanhelgar hans Heilaga Nafn med nöckru mote.

Þrid-

Hvör hefur þessa Skickan giört?

Þeir Heilögu Postular / og þeirra Epterkomendur.

Fyrer hvöria Ꝍr ein?

Þviad a þeim Deige/er vor Drottenn Jesus Christur af Dauda vpprisenn/ og hefur sætt og forlijkad oss vid sinn Himneska Födur. Þar fyrer kallast sa Dagur Dies Dominica / Þad er Drottins Dagur/ edur Drottenlegur Dagur. Og a þeim Deige þa hæfer oss allra helst og einkum ad koma oss j Sætt og Forlijkun vid Drotten̄ Gud vorn.

Hværiar eru þær Synder sem j Þssu Bodorde eru fyrerbodnar?

Guds Ord/ og Guds Ords Predikun ad fyrerlijta og forsoma.

Hvad hafa þesse Ord ad merkia Predikan og Guds Ord?

Þau merkia Munnlegan̄ Framburd Guds Orda/ hvör ed einn riettur Guds Ords Þienare og Sælusorgare trulega predikar og fram̄lætur fyrer Saudena Christi/ hrein og ofölsud/ hvört sem þau

eru predikud / lesen edur sungen. Item þau merkia skrifud Guds Ord / þegar Menn fa ecke ad heyra Muñlegar Predikaner. Hier med fylgia og eirneñ þau Haleitu Sacramenta.

## Nuar fyrer leggur Lutherus þesse tuo Ord so til samans / Predikun og Guds Ord?

Hann vill þar med avijsa / ad predik uneñ hun a ecke añad ad vera enn Guds Ord / Og sie hun ecke þad / þa er hun ecke nein riett Predikun / og henne erum vier Christner þa ecke skylldüger ad hlyda.

## Nuad kallast ad fyrerlijta Guds Ord?

Ad forakta Guds Ords Predikaner og þau Heilógu Sacramenta / Ad forsoma sijna Kirkiu / og koma þar sialldan edur ecke sem Guds Ord er predikad / og Heilóg Sacramenta eru hanterud / Ad tala auduirdelega þar vm / og hafa Gudds Ord j Gamne + Kieskne / elska meir stundlega Hlute og sitt Bwskaparlag og sijna Næring eñ Guds Ord / ad sofa edr

skrafa

ſkrafa þa predikad er/ eda ad byſa þa annar ſtadar Hugen og Hiartad. Jtem Ord og Predikaner fatækra Preſta/ j veſta maata wt ad leggia/ laſta þa og lyta.

Huörier eru þeir ſem þetta giöra?

Þeir ſem ecke elſka nie ottaſt Gud/ Þuiad þeir hyra, huörke vm Gud nie hans Ord.

## Nuør good Verk heimter Gud ad oſſ j þeſſu Bodorde?

Guds Heilaga Ord/ og Ordſins Predikun giarnſamlega ad heyra ⁊ læra/ ⁊ þad Heilagt ⁊ Haleitt ad hallda.

## Nuad er ad hallda Gu⸗ds Ord Heilagt?

Þad er/ Ad hallda myked vt af Guds Lögmæle/og þui Heilaga Euan⸗gelio. So og lyka ad virda þau Haleitu Sacramenta/ Þuiad med þeſſu og fyr⸗er þetta tuent höndlar Gud vid oſſ og talar/ ſnyr oſſ fra Ranglætenu/og gief ur Heilagan Anda / og giörer oſſ Riet⸗truada ⁊ Saluholpna.

Huad kallast ad heyra giarna?

Koma opt og ofialldañ til ad hey ra Guds Ords Predikaner / ꝛ hlyda þar a med Hiartans Glede ꝛ godre Astundañ

Huad kallast ad læra þad?

Ad hura epter þui sem predikad er lata þad ganga sier til Hiarta / ꝛ med-taka Orded med Trunne / og varדueita þad j sidsömu og goodu Hiarta / og brey ta þar eptet j Lifnadenum og Framferdenu.

Huörier eru þeir sem slijkt giöra?

Þeir einer giöra þad / sem elska Gud / Þuiad þeir heyra Guds Ord gia rna af Hiarta / þeir seigia ꝛ syngia þar af / og þeir lifa epter þui so sem riett-christnum Mönnum hæfer.

## VIII.

# Su önnur Tablan
## Lögmalsins.

Hefur hun mörg Boderd ad hallda?
Siö.

Huad

Huad kienna þau?

Þau kienna oß/ huórneñ vier eigum ad breyta vid vorn Naunga/ t allt þad sem hañ a/ og hónum til heyrer.

## Nueria Ordu eda Skickan hefur Gud j þessare annare Tóblunne sijns Lógmaals?

J þessu fiorda Bodordenu kienner hann/ huórnen vier eigum ad hegda oß vid þa sem eru hærre Stiettar enn vier erum.

J hinum fiorum þar næst/ syner hñ oß huórnen vier eigum ad breyta vid þ̄ sem Naungans er/ og þad sem hónum er allra kiærast/ sem er/ Fyrst hañ sialfur/ Þar næst hans Eckta kuinna/ Þar næst hans Eign og Gots/ Þar næst hans Sæmd og heidur og gott Rykte.

J þeim tueimur seinustu Bodordum setur Gud oß fyrer Sioner/ huórneñ vier eigum riettelega ad vnderstanda og skilia hans Bodord.

Fiorda



Þesse Figura heyrer til Genesis ix. Capitula.

## Fiorda Bodorded.

Huört er hid fiorda Bodord?

Heidra skalltu Fødur þinn og Modur þina/ so þier vel vegne/ og ad þu siert langlijfur a Jørdunne.

Huad er þad?

Vier eigum ad ottast og elska Gud/

Ad

Ad vier eige fyrerlytum vora Forelldra/ nie þa sem yfer oss eru bodner/ edur til Reide þa reitum/ Helldur þa j Heidre høfum/ þionum þeim z hlydner sieum/ elskum þa/ og þeim Virding veitum.

Huar fyrer seiger hier so/ þu skallt heidra Födur + Modur/ eñ ecke/ þu skallt heidra þyna Forelldra?

Vppa þad ad eingeñ skule hyra so/ ad þad sie nog/ ef ad nöckur hañ heidrar og elskar Födureñ eñ ecke Modurena/ so sem þad hættur er þessarar Veralldar/ Þegar Fadereñ er Andadur/ þa hirda marger ecke mÿked vm Modurena/ syna henne ecke Hlydne nie Heidur/ veita henne jlla/ og villdu feigeñ hun være j burtu.

Huad merker þetta Ord Forelldrar?

Fyrst Födur og Modur/ af huörium vier erum komner/ og j þeña Heim fædder/ Þar næst þa alla sem eru j Forelldrañna stad/ so sem ad er Afe Mans + adrer Forfedur. Item Stiupfedur/ Fiarhalls Meñ/ Fostrar/ og aller þeir sem Vmbod hafa yfer Ömögum/ Þeir og

eirnenn

eirnen lÿka / ſem eru Gudſedgen Mans/ þau ſem j Skÿrnene hafa ſÿna Tru Gu de til ſagt vorra vegna.

Hvörier eru yfer oſſ bodner?

Aller þeir ſem yfer oſſ eru ſetter/ Sem eru Sælusorgarar/ Skolameiſtar ar | Kienſlufedur/ Kienſlumædur/ Þar med aller Veralldleger Vallds Menn og Yferbodarar/ſem eru Hwsbændur/Hwſ mædur. Lÿka elrnen gamler Grahærds er Aerleger Men/ Aullum þeſſum eigum vier Heidur og Virding ad veita

Nuøriar eru þær Synder ſem fyrerbodnar eru j þui ſiorda Bodorde?

Ad fyrerlÿta og til Reide ad reita ſÿna Forelldra og Yferbodara.

Huad er ad ſyrerlÿta þa?

Þad er/ Ad hirda ecke vm þeirra Bod og Bifalningar/ þegar þeir bioda þad ſem Gude er ecke a mote.

Huadan kiemur ſlÿk Fyrerlitning?

Vt af Drambſeme/ Stergiærde/ og Metnade.

Nuad

## Hvad kallast ad reisa til Reidc sijna Forelldra og Yerbodata?

Þegar Madur er þeim ohlydeñ/vill ecke giöra þad/nie þui epterfylgia/sem þeir skipa rietteliga.

Hvörier giöra þetta?

Þeir sem ecke ottast Gud/Þuiad þr ottast og ecke helldur þa sem Gud hefur yfer þa sett/og j Guds Stad eiga yfer þa ad Bioda.

## Hvør eru Goodverk hins fiörda Bodordsins?

Þesse/ Ad heidra sijna Forelldra og Yfermenn/ þiona þeim/ og Hlydne ad syna þm/ þar med ad elska þa ⁊ veita þeim alla Virding.

## Hvad er ad heidra sijna Forelldra og Yerbodara?

Ecke alleinasta ad taka ofan/ og hneigia sig fyrer þeim/ Helldur og eirneñ ad meta þa mijkels/ ⁊ hafa ⁊ hallda þa fyrer sijna Yfermenn/ Herra/ Hwsbændur.

Hvad kallast ad þiona þeim?

Ad

Ad vinna med Tru og Dygd þad þeim vid kiemur. Þar næst þegar Forell draxner elldast og giórast lasner/ og þurfa vid/ ad veita þeim þa Framfære/ ærlega/ epter Efnum.

Hvad er ad hlyda þeim?

Ad veita þeim tilheyreliga Hlydne/ j óllum Somasamlegum og Christelegum Efnum.

Hvad er ad veita þm Elsku og Virding?

Þad er/ Ad hallda mÿked af þm̃/ vegna þeirra Kalls og Embættis/ sem þeir eru af Gude tilsetter/ og bidia til Guds fyrer þeim/ af godum Huga.

Hvörier giöra þetta?

Þeir sem ad elska Drottenn Gud/ Þuiad þeir enn sömu elska og eirnen̄ lÿka þa sem af Gude eru yfer þa setter/ og veita þeim Hlydne/ og fylgia þeim epter.

Hvortu hootar Gud þeim sem ad brióta aþ þessu Bodorde?

Ad þeir skule ecke leinge lifa a Jördunne.

Hvad merker þad?

Þeim

Med þui ad epterfylgiande Bod
ord tala vm Naũgañ/ þa seig
du mier/ Huør er Naungenn?

Vor naunge er huør einn Christeñ ma dur/ Þar næst aller þeir sem vorar Hia lpar þurfa vid/ Viner og Oviner/ Kien der og Okiender/ huørt sem þeir hafa oss nockurs Goods vared edur einskis.

Nuøriar eru þær Synder sem fyr-
erbodnar eru j þimta Bodordenu?

Ad meida Naungans Holld/Lijf hans edur Limu/ edur ad giøra hønum Mein j nøckru.

Nuad er ad meida hans
Holld edur Lijf?

Fyrst og fremst ad Lijflata hann/ edur med huøriu mote Madur rædur ød rum Banarad edur stofnar hønum til Dauda. Þar næst ad meida hans Holld med Høggum og Sløgum / Hæartog-um/ Skiemdum og Averkum/ og med huøriu mote sem Madur giører Mein ød rum med heyprugre Hende/ edur kiemur ødrum til ad giøra þad.

## Quad kallast Mein ad giøra Naunganum?

Ad vera hǫnum Meinsamur / Ovill darfullur / med Ordum edur Verkum.

### Huǫrnen skiedur þad?

Þegar Madur lijtur jllwdlega til Naungans / reidest hǫnum / blotar hǫnum og formælar / skamyrder hann edur ordskemer / hatar hañ edur fwler vid hǫnum / angrar hañ og stygger. Item þegar Madur er Naunganum Sǫk og Efne til nǫckurs Lijkamans veykleika / Tions edr Skada / hialpar hǫnum ecke þegar nǫckud liggur a / og hañ lijdur Oriett edur Ofrijke af ǫdrum.

### Huǫrier giǫra þetta?

Þeir sem ecke ottast Gud / Þeir skeyta ecke vm huǫrn Skada og Oriett þeir giǫra sijnum Naunga.

## Quør eru þau good Verken sem Gud bydur j Fimta Bodordenu?

Ad biarga Naunganum / ok vidhialpa hǫnum j ǫllum Lijfs Naudsynium.

### Huǫriar eru þær Lijfs Naudsyniar?

Allskyns

Allskyns Haskasemder / sem Madur kann ad vera j stoddur / af Vatne og Ellde / Sott eda Siukdome / Hungre eda Hallære / og ollum Voda.

Huad er ad biarga honum?

Ad leysa og frelsa hann vr Voda + Haska / koma honum til Hialpar med Ordum + Verkum / forsuara hañ / vera da hañ / Bitala fyrer hañ edur j Borg un ganga / þa honum aliggur / og alla vegana ad hialpa til / ad hann hallde Lyfe og Limum / Heilsu + Heilbrigde / so myked sem oss mogulegt er.

Eñ huad kallast / Ad vidhialpa Naunganum?

Þegar Madur gietur ecke sialfur Hialp veitt / ad styrkia þa Naungañ med goodum Radum / + bidia adra vm hñ / Edur j huorn mata sem Madur kann Naunganum ad vera til Huggunar / og til Gagns og Gooda.

Huor gioerer þetta?

Sa sem elskar Gud / Þuiad huor hañ elskar Gud / sa hinn same hañ veit

re sijnum Naunga Hialp og Styrk og elskar hann sem sialfañ sig.

X.



Þesse Figura heyrer til ij. Regum xj. Capitula.

Siøtta Bodord.

## Eige skalltu Hordom dryia.

Huad er þad

Vier eigum ad ottast og elska Gud/ Ad vier lifum hreinferduglega og heid arlega bæde j Ordum og Verkum/ Og

ad

ad huør og einn elſke og j Heidre hafe ſijna eckta Perſonu.

Huória ſnerter og áhrærer þta Bodord?

Alla Menn/ bæde þa ſem lifa j Hjó nabande/ + þa ſem þar fyrer vtan eru.

Huørneñ eiga þeir ad hegda ſier ſem ecke eru gipter

Þeir ſkulu lifa hreinferduglega bæde j Ordum og Verkum.

Huórnen ſkulu þeir lifa j Ordónum

Þeir ſkulu fordaſt alla ohæfeſkliga og ſkamlega Rædu/Blæm/Nijd/Bieſkne/ og allar Amurs vijſur + Brunakuæde/ og annad ſlijkt.

Huórnen j Verkónum

Þeir ſkulu fordaſt allt liotligt Framferde og Athæfe/ Ofneyſlu + Ofdrycku/ Jdiuleyſe/ Vmgeingne Ogudlegra Maña/ Þeir ſkulu ecke lia Augu ſijn til beſſ ad lijta nóckud þad ſem er liotlegt og ſkamlegt/ Fordaſt ſkulu þeir/ alla Stade þar ſem er oſidſamt + lauſlætt Folk/ og allt þad huar af Madur ham kann ad vppueckiaſt til vondra Girnda.

Huad er ad lifa Hreinferduglega?

Pad er / Ad geyma og vardueita Hiarta sitt og Hugreñingar / og siñ Lijkama j fra allre Otukt / og øllum Ohreinleika / Girndum og Loſtaſemdum.

Huad er ad lifa Heidarlega?

Ad hafa Tierlegt og ærlegt Fram̃ferde og Hegdan / og ad vakta ſig fyrer øllu þui ſem ad vera ma Orſök og Efne til vondra Girnda / og ſaurugs Lifnadar.

Huörier gióra þetta?

Þeir ſem Gud ottaſt / Þuiad þeir aſtunda ad vera Gude ſiñ lijkaſter / ✝ hönum ad fylgia / huör ad er hreinn og Heilagur.

Gietur nockur lifad Hreinferduglega og heidarlega j Hionabandenu?

Ia viſſulega / Þuiad til þeſſ hefur Gud þad jnnſett og ſkickad.

Huørneñ eiga þa Hioneñ ad hallda ſig?

Huört Hiona ſkal elſka og j Heidre hafa annad.

Huørnen?

Mad-

Maduren skal elska sijna Kuiñu enn ỏngua adra. Kuinnañ skal og elska sinn eigeñ Mañ / so sem sitt eiged Lijf / enn ỏnguañ annañ / So og skal huórt Hiona hallda + hafa annad j Heidre + Vird ingu / so sem eina Edlagiafu Guds / og sijna trua Medhialp.

## Huør Hion eru þau sem þetta giỏra?

Þau sem ad Gud elska / þuiad þau Hion sem Gud elska / þau elska og einneñ þa Giafu og Medhialp sem Gud hefur þeim veitt og giefed.

XI.

D v. Siøunda






Siounda Bodord.

Seigdu fram þad sijunda Bodord?

# Þu skallt ecke stela.

Huør er Meining þessara Orda?

Vier eigum ad ottast z elska Gud/ Ad vier ei grijpum Goods eda Peninga vors Naunga/ eda med følskum Kaupeyrer eda Vnderhyggiu vnder oss drøgum/ Helldur eigum vier hønum ad hial

pa/

pa/ad hans Gots og Upphellde avaxt est og vardueitest.

Huoriar eru Synder j mote þui siöunda Bodorde?

Ad grijpa Gotts og Peninga fyrer ödrum/og ofrialst ad hafa/ So og ad draga vnder sig þad sem Naungeñ a/ med False og Suikum/ j Sölum eda Kaupum/edur aññare Höndlan.

Huad kallast hier Gods. og Peningar?

Aller hrærանleger Hluter og lausa Aurar/ so og öll Jnntekt og Avöxtur allur sem Madr hefur af sijnu.

Huad er ad grijpa Gots edur Pening Naungans?

Fyrst ad stela/ so sem ad giöra Þiofar. Þar næst ad grijpa med Rane og Gripdeildum/ so sem ad giöra Ransmenn og Ræningiar/ + Agiarner ofrijkis Menn.

Huad kallast vnder sig ad draga/ med faulskum Kaupeyrer og Vnderhyggiu þad hans er?

Med

Med Okre / Suikum / Vrettum og kloklegum Brögdum yfer ad komast þ Naungann / huört þad skiedur j Kaupum edur Sölum / Ad hafa rangar Vog er / Stikur og Mælekska / Ad ræna wr sijna Peninga wr mata / Ad þiona med Otru og Odygd / Ad hallda jnne forþienstum Vinnulaunum:

Huörier giöra slijkt?

Þeir sem ecke ottast Gud / Þuiad þeir höndla ecke Ærlega nie Riettferduglega vid Naungann.

## Huør eru Good verk hins Siöunda Bodords?

Ad Hialpa Naunganum / og styrkia þar til ad hans Gods auaxtest / og hans næring ✝ Uppheellde vardueitest ✝ vaxe.

Huörnenn skiedur þad?

Þegar vier lætum Naungann önguann Skada fa (þad offer mögulegt) og afstyrum öllu þui sem hönum er til Skada.

Lijka einnen / Þegar hann lijdur Neyd og þarf vid / ad vier þa giefum hönum og lænum / edur j annann mata styrkium hann ✝ hönum Hialp veitum.

Item

Item / Þegar vier Rꝛdleggium og vnderuÿſum hönum / þad hönum ma til Gagns vera / og vörum han̄ vid hans Skada / og Tione.

Hvörier giöra þetta?

Þeir ſem Gud elſka / þuiad þeir aſtunda alla Tijma / þad þeir gieta / og þeim er mögulegt / ad vera ſijnum Na unga til Gagns + Gooda.

## XII.

Danielis Suſan̄u.



Þeſſe Figura heyrer til

Affun-

Huört er þad attunda Bodord?

# Eige skalltu bera Falskan Vitnis burd j mote Naunga þijnum.

Huad er þad?

Vier eigum ad ottast og elska Gud/ Ad vier ecke ranglega liugum nockru a vorn Naunga/ edur suikium/ baktølum edur ofrægum hann/ Helldur eigum vier hann ad afsaka / allt Gott vm hañ tala/ og færa alla Hlute til betra vegar.

Huad kallast ranglega ad liuga?

Ad þegia yfer Sañleikanum / huört helldur þad skiedur j Andlegum Malaferlum edur Veralldlegum/og vilia ecke bera riett ⁊ satt Vitne. Þar næst ad bera þad nockud fram̃ sem ecke eru Sanninde.

Huør=

Orde fyrer hañ/ þegar Madur heyrer ad loged er vppa hann nöckru/ og hönum er Bakmællt/ af þeim sem jlla vilia giöra.

### Huad kallast ad tala gott vm Naungañ?

Ad gieta Goods til hans/ og tala vel vm hañ fyrer huörium Mañe.

### Huad er ad þæra allt til betra vegar?

Ad hylia Naungans Brek + Brest/ og draga þar Fiödur yfer/ Og j hia ödrum sem vm hann tala jlla/ hañ ad afsaka/ og hans Misgiörder j Lægd ad leggia.

### A Madur þa ad forsuara openbera Glæpe og Synder?

Med önguu mote/ Þuiad þegar eiñ edur annar syndgar viliande j mote Guds Lögmæle/med tilsettu Rade/+ frem ur Synder og Glæpe/ þad skal eingenn forsuara/ helldur,so/ Vilie þar ecke Boot edur Betran a verda/ epter þad hinum seka er þad vnderuijsad/ þa skal Madur flyia og fordast soddañ.

Huørier eru þeir ſem aſtunda ad fremia þeſſe Goodverk hins attunda Bodords?

Þeir ſem Gud elſka/ þeir tala Sañleikañ/ og þeir temia ſijna Tungu/ og hafa Taum a heñe/ ſo hun tale ecke ann ad enn Gott um Naungañ.

## XIII.

Þeſſe Figura heyrer til



Geneſis xxx. Capitula.

Niunda Bodord.

Huǫrneñ hlyder þad niunda Bodord?

Þu

## Þu skallt ecke girnast Hws Naunga þijns.

Huörnen a ad skilia þad?

Vier eigum ad ottast og elska Gud/ Ad vær ei med Flærd stundum epter Arfe edur fasta Eign vors Naunga/ edur vnder oss drøgum med Yfervarpe Laga og Riettinda/ Nelldur eigum vier til hialpa og styrkia/ ad hann hafe sitt oskaddad.

Þetta Ord ad GIRNAST/ Huad merker þ j þessum̃ tueimur seinustu Bodordum?

Vm tueggia handa Girnd verdur talad j Heilagre Ritningu/ Su fyrre/ hun er ecke a mote Gudz Orde/ og ecke hell dur j mote riettu Natturunnar Edle + er ecke forbodenn. Su önnur Girnd er þ/ þegar Madur hefur Lyst og Agirnd a nockru/ og þad skiedur j mote Guds Bodordum og hans Vilia/ su sama Agirnd er hier fyrerboden.

Hvøriar eru þær Synder sem fyrer bodnar eru j þui niunda Bodorde?

Ad stunda med Klokskap epter Arfe edur Hwse Naungans / og draga þad vnder sig med Afferuarpe Laga og Riettinda.

Huad merker Arfur?

Allt fasta Gods sem Naungen̄ a / sie þad Akur edur Eing / Skogar / Rek-ar / Vötn / Veidestader / edur huad fyrer Lands nytiar þad eru.

Huad kallast Hws

Su Bygd og Boolfesta / a huörre Naungen̄ byr / so Jörd Mans og Leigu mæle sem annad / Þar med aller þeir Hluter sem Bwskaparlagenu vid koma og þar vnder eru / + Naunganum heyra til.

Huad kallast ad stunda med Flærd epter Naungans Arfe edur Hwse

Med Klokskap og Kyndugleika og Vnderhyggiu og Klæmsku ad komast yfer þad sem Naungen̄ a / Ad wtarma han̄ og minka hans Vpphellde / edur ba ga han̄ j nöckru / so ad hann neydest til vm

vm ſÿder ad ganga fra ſÿnum Arfe og Eign/ ꝩ ſelia þad ödrum ſem hañ a.

## Quad kallaſt Yferuarp

### Laga og Riettinda?

Allra handa tilefna ad leita/ med kloklegum Brögdum/ Prætum og Rlös gumalum/ med Laga flækium/ med Soknum olöglegum/ med Vielum/ og med huörium hætte ſem einn hañ giörer edur giöra lætur Naunganum Skada/ Mein/ Tion/ Hindran a hans Eign edur Arfe/ og girneſt ſo ad komaſt yfer þad hann a/ og læſt hafa Lög og Riett þar til/ ſo ad Naungeñ neydeſt til ad ganga fyrer þad af ſiñe Eign.

### Giöra þetta nöckrer?

Þeir ſem ecke ottaſt Gud/ Þuiad þeir giöra ſier öngua Samuiſku þar af Og ecke hirda þeir vm þott þeir giöre Naunganum Oriett.

### Good Verk þau ſem Gud bydur j þeſſu Bodorde/ Huör eru þau

Ad hialpa Naunganum/og ſtyrkia hann þar til/ ad hann meige bihallda Aurfum og Eignum og öllu þui hañ a.

### Huörneñ hialpum vier hönum?

Þad ſkiedur/ þa vier erum hönum

til Gagns og Gooda/veitum og giefum hónum (þad oss er mógulegt) af þui sem Gud hefur oss lænad.

Huórnenn styrkium vier hann ?

Þa vier leggium hónum Gott til vid adra/ forsuórum hann / og fylgium hans Mæle/ Einkum þa hann verdur med Slægd og Yferuarpe Laga yfer fallenn af nóckrum og nidurþryktur.

Huórier giöra slijkt ?

Þeir sem elska Gud/ Þuiad þeir þi ona og eirnenn Naunganum/ og eru hón um til Gooda/ huar þeir kunna.

XIIII.

Tiunda





Þesse Figura heyrer til Genesis xxix. Capitula.

## Tiunda Bodord.

Huorneñ hlyder þad tiunda Bodord Guds?

Eige skalltu girnast hans eigeñ Kuiñu/eige Þion/nie Þionustu Kuiñu/ eige Vxa/ nie Asna/og eckert þad hñ a.

Huad er þad?

Vier eigum ad ottast og elska Gud/ Ad vier ei burt tælum eda vielum fra vorum Naunga hans eigenn Kuinnu/ Þionustu folk eda Kuikfie/ Helldur eig um vier ad aminna og rædleggia ad huor z einn sie samt/og astunde ad þio= na þad hönum skylldugt er.

Huoriar eru þær Synder sem Gud fyrerbydur j þessu Bodorde?

Ad tæla og locka fra Naunganum hans Kuinnu/ Vinnufolk/og af hönum ad viela/hans Kuikfie.

Huörneñ skiedur þad?

1 Þegar einn edur annar hann talar so vin fyrer Konu Mans/ fyrer hans Vinnufolke/ so ad þau vinna ecke med Dygd sijna skylldúga Þionustu/ og eru Hwsbændónum ohlyden og odygg.

2 Þegar einn liggur vnder nidre/ z lock um annars Vinnumann/ Vinnukonu/ huórt helldur hañ giórer þad med Skei nkingum/ Gæsum/ fógrum Ordum og Fyrerheitū/ edur lætur adra giöra þad.

3 Þegar einn vielar af ódrum med

Klock

Klokskap / edur til siin dregur hans Hest edur Naut / edur annad Kuikfie.

Huórier giöra slijkt?

Þeir sem Gud ecke ottast / huiad þr giöra Naunganum eckert gott.

## Huør eru Good verk hins Tiunda Bodords?

Ad telia vm fyrer Konu Mans / fyrer hans Hiwum og Vinnufolke / aminna þad og a ad eggia / ad þad blijfe kyrt hia sijnum Hwsbonda / og þione huad þad skylldugt er.

Huórnen a Madur ad giöra þetta?

Hañ skal minna þau a sitt Kall og Embætte / sem Gud hefur þau til kallad / Hañ skal seigia þeim huórt Straff þar liggur vid / ef þau syndga og giöra ecke sijna Skylldu.

Huór er þeirra Skyllda?

Huór og einn hañ a ad vera hlydeñ og audsueipur / og giöra had sem hónum er skipad / + hónum skylldugt er.

## Huørier afsunda ad hallda þetta Bodord?

E v Þeir

Þeir ſem elſka Gud/ þuiad þeir vn-
na ſijnum Naunga alls Goods/ og þio-
na hönum j huörn mata þeir kuña.

Þui hefur Gud ſierdeiles ſett z
giefed þeſſe tuö Bodord?

Til þeſſ ad vier ſkulum hier læra/
ad Gud j ſijnu Lögmæle/ lætur ſier ecke
fullnægia þa ytre Hlydne og Lögmal-
ſins Vppfylling ſem verdur fyrer Mann
aña Augum· Helldur vill hn̄ hafa eina
fullkomlega Hlydne/ huör ad er an all-
ra vondra Fyſna og Girnda.

Er ſoddañ Hlydne medur oſſ?

Langt fra/ Þui verr.

Þui krefur Gud heñar þa af oſſ?

Fyrer tuær Greiner:

1 So ad vier ſkulum læra/ad Guds
Lögmal þad er Andlegt/ og lætur ſier
ecke lijka nie fullnægia alleinaſta þa yt-
re Hlydnena/ fyrer Mañana Augum.

2 Þar næſt/ þa vill Gud/ ad vier j
þann mata lærum ad þeckia vora ſynd
ſamlega Natturu/ So vier hölldum
oſſ ecke fyrer Gude ad vera Froma og
Riettlata/ ſo ſem ad giöra Hræſnarar/
Helld-

Helldur ad vier vitum/ ad vor Verk du- ga ecke/ og med þeim kuñum vier j öng vañ mata/ Guds Lögmæl vpp ad fylla.

## XV.

## Huad seiger Gud vm øll þesse Bodord.

So seiger hann/ Eg er Drottenn Gud þinn/ Styrkur/ Vandlætare/ vit- iande Ranglætis Fedranna a Sonon- um j þridiu og fiordu ættkuisl/ þeirra sem mig hata. Enn giørande Mysk- unseme j þushund Kynkuisler/ þeim sem mig elska og vardueita miñ Bodord.

Huar standa þesse Ord skrifud?

Gud hann talar þau j annare Bok Mosis 20. Cap. Og setur þau strax hia fyrsta Bodorde/ og vill ad þau sku- le heyra til øllum Bodordum og sier- huöriu einu.

Huör er Vnderstada þessara Orda?

Gud

Gud hootar þeim öllum Straffe og Refsingum sem briota af þessum Bodordum/ Þui eigum vier ad ottast ꝛ hrædast hŭs Reide/ꝛ eckert giöra j mote þessū hŭs Bodordum. Eñ þm öllū sem þesse hŭs Bodord hallda/ þm lofar hñ. sñe Nꝯd ꝛ öllū godum hlutū/ Þar fyrer eigū vier Gud ad elska/trua hm ꝛ tryst ta ꝛ epter hŭs Bodordū giarnan giöra.

Huad lærer þu af þessum Ordum?

Tuent.

1 Ad Gud hañ vilie þunglega refsa ecke alleinasta þeim sem sialfer briota af hans Bodordum/ helldur og so eirn eñ leggia Refsing a þeirra Börn ꝛ Nid ia. Þar fyrer þa eigum vier ad hrædast og skielfast fyrer hans Reide/ og vakta oss/ so ad vier giörum eckert j mote hans Bodordū. Og þar fyrer standa þsse Ord j Vtleggingu sierhuers Bodords/ Vier skulum ottast Gud.

Huad er þad annad?

2 Ad Gud hñ vilie vera þeim Myskunsamur/og veita þeim allt Gott/allt j þushund Lidu/öllum þm sem ad lifa epter hans Bodordum. Þar fyrer skulum vier elska hann og trua og treysta a

hönum

hiñ/ og ſeigenſamlega liſa epter hans Bodordum. Og þar fyrer ſtendr ſo hia huöriu Bodorde j Vtleggingunñe/ Vier ſkulum Gud elſka.

Quar fyrer nefner Gud ſig einn Vandlætara?

So ſem einn Ærlegur Madur kann ecke ad lyda/ ad hans eigen̄ Kona þydeſt nöckurn annan̄. Lyka eins vill Gud ad vier höllldum oſſ og hegdum epter hans Orde alleina/. Lyka ſo ſem værum vier hans eigenleg Brædur/ Og hann vill j önguan̄ mæta lata þa oreſsta vera hier j Heime nie ödrum/ ſem ad bri ota af hans Bodordum.

Kantu ad ſeigia mier ſtutt Jn̄ehalld og Meining alls Lögmalſins?

Matth. 22. Cap. þa ſtendur ſo ſkrifad/ Og Deuteronomi 6. Leuit. 19. Þu ſkallt elſka Drotten̄ Gud þinn af øllu þynu Hiarta/af allre þin̄e Sælu/ af øllu þynu Megne/af øllu þynu Hugſkote/Og þin̄ Nauŋga ſo ſ̄ ſialfan̄ þig. Chriſtur han̄ ſeiger og lyka ſo/ Allt hu ad þier vilied ad Mennerner giöre ydur/ þ ſkulu þier þeim giöra/ ꝛc.

XVI. Kun̄um

Kunum vier nockud ad vppfylla og halda þetta Guds Lögmaal/ og þar med ad þorþiena Guds Naad og Vinskap?

J önguann maata.

Þui ecke?

Þuiad Gud han̄ heimter og krefur j sijnu Lögmaale/ ecke alleinasta þeirrar ytre Hlydne og Sidsemdar/ helldur vill han̄ hafa huörtueggia/ Bæde þa jnnre og ytre Hlydnena fullkomna og algiörda/ huöria vier vegna þeirrar hörmulegu Fordiörfunar sem yfer Mannlega Nætturu komen̄ er/ ecke kun̄um hönum ad veita.

Quar fyrer hefur þa Gud vtgiefed sitt Lögmaal

1 J fyrstu/ til þess/ Ad vier þar vt af skulum læra ad þeckia vorar Synder/ j huörium vier erum gietner og fædder/ og lijka þær sem vier vm alla vora Lijfdaga giört og framed höfum/ og læta oss þær leidar vera/ og jdrast þra.

2 Þar næst/ þa a Lögmaaled ad vera vor tyttunar Meistare/ huör ed oss vijs-

ar

ar vppa Christum/ sem ad er Lögmæls-
sins Ender og Vppfylling.

3 Ad sijdustu/ þa a Lögmæled ad
kienna oss/ huör þau Goodverken eru/
sem vier eigum fyrer Hialp Heilags An-
da/ og j Truñe/ad astunda + giöra/ so
myked sem oss er mögulegt j þessu veyka
Hollde.

4 Lijka eirneñ/ kienner Lögmæled
oss huöriar Synder vier eigum ad ford-
ast og flyia.

## XVII.

Huad er Syndeñ?

Synd er allt þad sem er j mote Lög
mæle og Bodordum Guds/ huört hell-
dur þad er j Nætturu Mañsins/ edur j
Hiartanu/ edr j Ordum eda Giördū.

Huadan kiemur Syndeñ?

Af Innblæstre og Aeggian Diöful-
sins/huör ed spilltre Mañsins Nætturu
kiemur til þess ad syndga a mote Guds
Bodordum.

Huar af er vor Nattura so
spillt og fordiörfud?

Af Falle vorra fyrstu Foreldra Adams og Eun j Paradie.

Huörsu er þeim Syndum hꜳttað sem að skie + verda j mote þessum Tiu Bodordum?

Þær eru med tueñ mote/ Sem er Þa vier giörum þad nöckud sem Gud hefur fyrerboded. Þar næst/ þegar vier giörum þad ecke sem Gud hefur skipad og bifalad.

Huad forþienar Madur med Syndeñe?

Guds Oblÿdu og hans Reide/ Straff og Refsing/ bæde hier stundlega og so eilÿflega añars heims.

Huorneñ verdr Guds Lögmꜳl vppfyllt/ og huórneñ verdum vier lauser vid Syndena?

Vor Linse Lausnare Jesus Christur hañ hefur fullkomlega vppfyllt Lögmꜳled/ Og þesse hans Vppfylling og Forþienusta/ verdur oss wt af Nꜳd og Myskun Guds til reiknud og eignud/ ef ad vier truum a hañ/ og so faum vier og ödlunst Syndanna Fyrergiefning/ og verdum Riettlꜳter/ og ad sÿdustu Sꜳluhólp

veranda ORD/ j Heilögum Anda/ skap ad Himen og Jörd a samt med öllum goodum Hlutum sem þar eru jnne.

### Gieftur nockur slijkt skiled og skyniad til fulls?

Langt er fra þui/ Helldur verdū vier ad trua þessu/ Þuiad so vijtt og hætt sem Guds Guddomleg Vera hun yfer gengur alla Nattúrlega Nátturu/ so Haleit og oransakanleg eru Guds Verk/ og ganga yfer allañ vorn Skilning.

### Huar fyrer eigum vier ad trua þessu?

Þar fyrer/ ad sa goode Gud hann hefur þetta so j sijnu Orde fyrer oss op enberad/ Og hier vnder er komed eilijft Lijf allra Manna.

### Beuijsa þu vt af Heilagre Ritningu ad Guds Sonur + Gud Heilagur Ande hafe vered med ad skapa all ar goodar Skiepnur?

Genesis j fyrsta Capitula verdur lio slega gieted allra þriggia Personanna/ j Verke Sköpunarennar. Gud Fader hañ talar Orded. Fyrer þ ORD er allt ska-

pad. Og Heilagur Ande hañ hrærdest yfer Vötneñ / nærer og lijfgar allar þær Skiepnur sem Gud hefur skapad. Slijkt vtskyrer David liosslega 33. Psalme / þar hann seiger / Fyrer ORD Drottens eru Himnarner skapader / Og allur þeirra Her / fyrer Anda hans Muns.

Huar fyrer til leggia z eigna Meñ Gude Födur einungis Sköpunena?

Fyrst þar fyrer / Ad hañ er sü fyrsta Persona Guddomlegrar Veru og Vnderstödu / og alijka so sem Vppsprettа Guddomsins.

Þar næst er þad og eirneñ giört vegna þeirra einföllu og Fafrodu / so ad þeir lære ad giöra Greinarmun a Personum Guddomsins / Þuiad so sem Synenum heyrer til Verk Endurlausnarennar / og Heilögum Anda til heyrer Verk Helganareñar / So eigna Menn Gude Födur þad merkelega Verk Sköpunarennar / Enn þo samt eru þær tuær adrar Personuñar j önguañ mata þar fra skildar.

## XXI.

Seig-

Seigdu mier j ſtuttu Mꝍle/ Nu
ad lærer þu ut af þeirre fyr-
ſtu Grein Truarennar?

## Þria Nlute/ eda Þrent.

1 Fyrſt/ Huad Gud Fader hefr veitt og giört mier/ og enn nu Daglega mier veiter.

2 Þar næſt/ Huar fyrer hann giörer þad.

3 Þad þridia/ Huad eg aad veita hönum þar j ſtaden̄:

Huad hefur Gud veitt þier?

Hann hefur ſkapad mig/ Lijf og Lijkama hef eg af önguum audrum nema hönum.

Huad giörer þa Fader og Moder?

Þau eru ecke annad enn ſo ſem eitt Medium/ Medal edur Mꝍte/ fyrer huörn Gud Bleſſadur epter ſijnum þꝍgeleg um Vilia hefur læted mig ꝛ adrar Man̄ eſkiur j þennan̄ Heim fꝍdaſt.

Huad veiter Gud þier meira?

Han̄ helldur vid Magt Lijfe og Lij kama/ fꝍder ꝛ nærer mig allt til Þſsa/

+ giefur mier nogleg a hvad hellst eg hef þórf til þessa Lijfs Opphelldis/ Og þetta sama veiter hañ mier og giefur af sinne Fódurlegre Millde/a medan eg life.

Huar mz helldur hañ vid Magt Lijfe og Lykama?

Med Mat og Dryck/ Klædum og Skiædum og óllu ódru þui sem hañ veiter oss og giefur til þessa Lijfs Opphelldis.

Skalltu þa ecke vinna pared?

Jú ad vissu skal eg vinna og erfuida. Þuiad Gud hann hefur aluarlega skipad og Boded erfuided/ Þar a mote hatar hann og fordæmer Letena og Idiuleysed hardlega. Enn Erfuided er sa Hlutur med hvóriu og huar fyrer Meñ fa og ódlast af Gude þeirra Daglegt Braud.

Huad veiter Gud þier meira?

Hann verndar mig og Myskunsamlega vardueiter fyrer óllum Skada og Hæska/ og fyrer Dióflenum/ og hans Slægdum + Vielum/ + fyrer óllu Illu.

Huar

Huar fyrer giörer hann þad ?

Allt þetta þa giörer hann af sinne Fódurlegre Giæsku og Myskun/ fyrer utan alla myna Tilverkã + Forþienustu

Huad gielldur þu Gude fyrer allt þtta ?

Eg er skylldugur ad þacka hönum hier fyrer/ ad dyrka hann/ad þiona hö num/og ad vera hönum hlyden.

Seigdu mier Mismun þessara fiögra Orda

J fyrstu þa a eg af Hiartans Root og Grunne þetta allt ad virda vid min̄ Himneska Födur/ og hönum einum þet ta ad þacka.

J annan̄ mæta eigum vier slijkt ad jata og medkienna med Munenum/ og dyrka/ lofa + Vegsama hn̄ þar fyrer.

J þridia mæta þa er eg skylldugur ad þiona hönum mz minne Eign + öllu þui sem eg a/og eg forma/og han̄ hef ur veitt og giefed mier.

Ad sijdustu er eg skylldugur / ad vera hönum hlyden alla myna Lijfdaga.

Huad merkia þesse Ord j fyrstu z an̄are Grein/Þetta eru vissuleg Sannende ?

Þad er ſo myked ſem Amen/ Jeg true öllu þeſſu ſo viſſulega og ſannlega/ad eg vil þar vppa deyia og Sæluholpeñ verda.

## Er nu þetta Verk Skøpunarennar Guds Himneſka Födurs þad ſiæſta og hellſta ?

Nei/ Helldur þad/ ad hann hefur vtgiefed ſinn Hiartkiæraſta Son Jeſum Chriſtum Mañkyneni til Endurlauſnar og Sæluhialpar.

Huar verdur talad vm þad ?

J annare Höfudgrein Chriſtelegrar Truar:

XXII.

Auñur



# Aunnur Grein Christelegrar Truar.



Þesse Figura heyrer til Matthei xxvij. Capitula.

Huar vm hlyder hun

Hun hlyder vm Guds Son / þa adra Personu Guddomsins vorn Endurlausnara Jesum Christum.

Huörnen er su Grein lesande

Eg true a Jesum Christum Son hans Eingieten Vorn

Drottenn/ Huør ad gieten̄ var aþ Heilôgum Anda/ Fædd-
ur af Mariu Meyu/ Pijndur
ynder Pontuerſkum Pilato/
Kroſsfeſtur/ Deyddur og Gr-
afeñ/ Nidur ſtie hañ til Hel-
uijta/ a þridia Deige reis hann
ypp fra Daudum/ Vpp ſtie
hann til Himna/ Situr hañ
til hœgre Handar Guds Fôd-
urs Almattugs/ Þadann er
hann komande ad Dœma Lif-
endur og Dauda.

Huad er þad?

Eg true ad Jeſus Chriſtus ſie ſan-
nur Gud af Fødurnum gieteñ fyrer all
ar Allder/ Og lijka ſañur Madur fæd
dur

dur af Mariu Meyiu/ Ad hañ sie miñ Drotteñ / semnig Glatadann og Fyr erdæmdañ Mann hefur vtuegad / endurleyst og Frelsad fra øllum Syndum/ Daudanum og Diøfulsins Vallde/ Eige med Gulle eda Sylfre/ Helldur med sijnu Heilaga z Dyrmæta Blode/ og sijnum saklausa Dauda og Pijnu/ So ad eg verde hans eigenlegur/ life vnder hans Vallde j hans Rijke/ hønum þione j eilijfu Riettlæte/ Meinleyse og Sæluhialp/ Lijka sem hann er sialfur af Dauda vpprisenn/ Lifer og Rijker ad Eilijfu/ Þetta eru visulega Sanninde.

Huad lærer þu sierdeiles z einkum ap þessare Truargrein?

Þetta/ Ad Jesus Christus alleina eñ eingeñ annar/ sie minn Drotteñ og Lausnare og Frelsare/ fyrer huørn alleina eg verd laus z kuitte vid mijnar Synder.

Huada Nafn er þad Jesus?

Þad er eitt Hebreskt Nafn/ og þyd

est a Norrænu/ Naudhialpar: Endurlausnare/ Frelsare/ Saluhialpare.

Þui kallast su önnur Personan Guddomsins/Jesus?

Þuiad hañ hefur Leyst og Frelsad sitt Folk af öllum Syndum.

Huada Nafn er þad Christur?

Þad er eitt Grijskt Nafn/ og þydest a Norrænu Smurdur/ Enn a Hebresku kallast þad Messias.

Huar fyrer nefnest su önnur Guddomsins persona Christus?

Þuiad hann er med Heilögum Anda so sem med þui sönnu gledeñar Vidsmiörfe smurdur/ ecke med Skamte nöckrum/ helldur yfergnæfanlega/ og so sem sa riette Messias/ vijgdur + Ordineradur.

Huar til er hañ smurdur?

Til þess ad hañ skule vera vor eiginar Herra/ Kongur/ og hæste Kieñemadur/ epter vijsu Melchisedech.

Huad er þa Jesus Christus?

Hann er einn sannur Gud og sannur Madur.

Huar

Huar fyrer er hann Gud?

Huiad hann er af Gude Fødur fæddur ovmrædanlega / fyrer utan allt Upphaf.

Hui er hañ sañur Madur?

Huiad hann er geteñ af Heilögum Anda / og fæddur af oflecfadre Meyiu og Moder Jomfru Maria.

Hefur Christur fleire Nattururr enn eina?

Christus er ad sönnu einasta eínn / sannur Gud og sannur Madur / Eñ þo eru med hönum tuær sundurgreinanlegar Natturur / Ein Guddomleg / Auñur Manndomleg.

Eru þessar tuær Natturur samblandadar j Christo / Edur ver da þær skildar huör fra añare?

Þessar tuær Natturur eru so Persónulega og oadskilianlega samteingdar j Personuñe Herrans Christi / ad þær kunna ecke ad verda skildar huör fra añare / eige helldur ad samblandast / ad eilijfu / Og lijka so sem Sal og Lijkame er eim Madur / so er Christur sannur Gud og Madur ein Persona.

Þui

Þui er Christur nefndr einka Son ur edur eingieten̄ Sonur Guds?

Þuiad hann alleinasta er sa Eingiet ne Sonur Guds Födurs af Födurnum fædder ovmrædelega / Enn vier Christ-ner menn verdum ecke fædder Guds Bö-rn / helldur verdum vier Guds Börn vt af Nad og Myskunseme / og erum ad oska Börnum giörder.

Þui kallar þu hann Drotten̄?

Þuiad han̄ er alleinasta vor Drott-en̄ / Endurlausnare / Frelsare / sa ed oss verndar og varduciter / fyrer öllum vo-rum Ovinum·

Þui er hann gieten̄ af Heilög-um Anda / og fædder af Meyu?

So ad hann hefde Holld og Blod lij ka so sem aller Men̄ adrer / þo an allra Synda / Þar næst / ad hū þar med hrein se og Heilagā giöre vorn Gietnad og vo ra Fæding / sem huörtveggia er spillt og fordiarfad af Syndenne.

## XXIII.

Huort er fierdeilis Verk mijns Herra Jesu Christi?

Þad

Þad nädarfulla Verk Endurlausnarennar / Sem er ad hann hefur leyst og frelsad mig / vtnegad og aptur keypt og endurleyst.

## Hefur þa Sonurenn leyst þig / enn ecke Faderenn?

Ecke so / Helldur huad hellst su eina Persona j Guddomenum hefur veitt mier og giört / þad er skied af þeim öll um þremur.

## Fra huoriu þa hefur Christur frelsad þig?

Fra öllum Syndum / fra Daudanum og Dioful sins Vallde / sem ad eru miner örgustu Fiandmenn og höfud Ovrner.

## Huor af þessum þremur Ovinum er hrædelegastur?

Hann / huörn Veröllden aktar allra minst / huörn vier alla tyma berum med oss / sem er Synden. Þuiad hennar vegna hefur Dauden og Diöfullen / epter riettum Guds Dome feinged Magt og Valld yfer oss.

Huor

**Huørnenñ hefur Christur leyst þig fra Daudanum/ þar þu verdur þo samt vm sÿder ad deyia?**

Med þui ad Christus hn̄ hefur leyst og frelsad mig fra þeim eilÿfa Dauda/ þa er Lÿkamlegur Daudenn mier med ǒllu skadlaus/ Hañ er ordeñ mier Dyr og Jnngangur til eilÿfs Lÿfs.

**Huar med hefur Christur leyst þig?**

Ecke med forgeingelegum Hlutum Gulle eda Silfre/ helldur med sÿnu Heilaga Dyrmæta Blode/ ꝛ med sinne Saklausre Pÿnu og sÿnum Dauda.

**Þui nefner þu Bloded Christi Heilagt Dyrmætt?**

Þuiad þad er þad Dyrmæta Endurlausnar verd fyrer mÿnar Synder/ fyrer huǒrt Gud hann er forlÿktur/ enn eg af Syndǒnum hreinsadur.

**Þui leggur þu þesse Ord þar til saklausre Pÿnu og Dauda?**

Þuiad þad saklausa Lambed Guds hefur lided Dauda ꝛ Pÿnu fyrer mig Sakadañ / So ad eg yrde saklaus fyrer hann.

Hef?

Nefur hann þa leyst þig til þess/
so þu meiger lata og lifa
epter þijnum eigenn Vilia?

Langt er fra þui/ Helldur vppa þ ad eg skule vera hans eigen Eign/og skule lifa vnder hans Vallde/ j hans Rijke/ þionande hönum j eilijfu Riettlæte Meinleyse og Sæluhialp/ lijka sem hañ er af Daudanum sialfur vpprisen/og lifer og rijker ad Eilijfu.

## XXIIII.

Barn mitt/ Seigdu mier huar
fyrer ad Christur hefur lided
vnder Pontio Pilato?

Pad er þar fyrer skied/ so vier ecke skulum þurfa ad kueliast eilijflega af Dioflenū. Þar næst/ So ad vier vissum Tijd og Tijma nær hann var pijndur/ Lijka eirneñ þad/ ad vier Heidingiar höfum styrkt og hialpad til hans Pijnu/so vel sem Gydingarner.

Þui er hann krossfestur?

Af þui hann villde verda ein Bölvan/fyrer Gude/vorra vegna/so ad vier

yrd-

yrdum leyster fra Bölvaneñe / og ad hañ giórde oss vorn Kross og Mótgang þess liettbærara.

Huar pyrer er Christur daeñ?

Til ad forlijka oss aumar Manneskiur vid Gud sinn Himneska Födur / og ad leysa oss fra þeim eilijfa Dauda / og ad læta þennañ lijkamlega Dauda ecke verda oss annad eñ so sem aññ Suefn.

Þui er hann grafen?

Til þess ad hylia þar og grafa vorar Synder / Og eirneñ ad helga vorar Grafer / og ad giöra af þeim eitt Suefnherberge og Huijldar sæng edur Legstad.

Huar fyrer er Christur ofan stijgeñ til Heluijta?

So ad vier skylldum alldrei þar koma. Og hann hefur þar med Heluijte og Diöfuleñ sigrad og bunded / so hñ kann nu oss aunguañ Skada ad giöra / ef vier erum riett christner.

Huar fyrer er Christr a þridia Deige vpp aptur risenn fra Daudum?

Oss til Riettlætingar / Og ad vier fyrer þennañ Lijkamlegañ Stundlegañ Dauda

Dauda mættum fa Jñgǫngu j þad ei=
lijfa Lijfed.

## XXV.

### Nuørnen skilur þu Vppstijgning Christi/ til Himna?

Eg skil hana so / Ad hañ hafe teked fra oss sijna synneliga Nalægd/ Vist ꝛ Veru/ og er komeñ þangad aptur sem hañ var ædur ad Eilijfu/ til sijns Himneska Fǫdurs. Enn þo samt er hañ hia oss alla Daga / allt til Heimsins Enda.

### Nuad merkia þesse Ord/ Nañ sitiur til Guds hægre Nandar?

Þad er so ad skilia/ Hañ hefur mz Gude sijnum Himneska Fǫdur og þeim Heilaga Anda jafna Dyrd / eins Magt og Valld/ bæde a Himne ꝛ a Jǫrdu.

### Nuar fyrer er Christur vppstijgenn til Himna?

Hañ hefur þar med til Fanga teked og Hertekna leitt vora Ovine/ ꝛ opnad fyrer oss þañ Veg til Himerijkes/ sem ædur var Byrgdur/ og tekur oss so til sijn þa Tijmeñ kiemur.

N. Nuad

## Quad giører hann til Guds hægre Handar?

Hañ er þar vor Medalgangare hia sÿnum Himneska Faudur/ og hañ sender og giefur Heilagañ Anda j Hiórtu riettruadra Manna hier a Jórduñe.

### Blÿfur hañ alla Tÿma þar a Himnum?

Nei/ Helldur mun hañ þadan koma a sÿdasta Deige/ j Skyónum/ med Dyrd og Krapte myklum.

### Til huórs vill hañ koma?

Til þess ad dæma Lifendur og Dauda.

### Huórier kallast Lifendur

Þeir sem ad þa verda lifande fundner/ a þann sÿdasta Dag/ þegar Christur hañ kiemur til Domsins.

### Huórier kallast Dauder?

Aller þeir sem andast hafa fra Heimsins Upphafe/ og a sÿdasta Deige fiñast Framlidner ad vera.

### Quørneñ fer hañ ad dæma Lifendur og Dauda?

So/ Hann mun skilia þa Goodu j

fra

fra þeim Vondu/ so sem einn Hirder skilur Saudena fra Hófrunum/ Og syna Riettchristna mun hann jnnleida j eilyft Lyf/ En óllum Ogudlegum mun hann kasta j Heluyskann Elld og eilyfann Dauda.

## Nuar til eru oss soddan Herrans Christi Velgiórningar gagnleger

Til þess/ Ad vier meigum nu vænta oss og vona af hónum alls Goods/ setia til hans alla vora Von og allt vort trunadar Traust/ og leita ecke Saluhialpar nóckurstadar nema j hia hónum alleinasta.

## XXVI.

H ij. Pridia



# Þridia Høfudgrein Chri stelegrar Truarjatningar.



Þesse Figura heyrer til Actorum ij. Capitula.

Quad hefur hin þridia Grein
jnne ad hallda?

Hun talar vm Gud Heilagañ Anda þa þridiu Guddomsins Personu/ ⁊ vm Helgunena.

Huornen hlyder þesse Grein
vt af H lgunenne?

Eg

Eg true a Helgann Anda/ Heilaga Almennelega Christne/ Samneyte Heilagra/ Fyrergiefning Syndana/ Holldsins Uppriſu/ Eiliift Liijf epter þetta Liijf/ Amen.

Huad er þad?

Eg true ad eg giete ecke af ſialfs miijns eigen̄ Krapte nie Skilninge truad a Jeſum Chriſtum minn Drotten̄/ eda til hans komeſt/ Helldur hefur Heilagur Ande mig fyrer Gudſpiallanna Kienning kallad/ og vpplyſt med ſiijnum Aaſtgiøfum/ helgad mig og vidhallded j riettre Tru/ Lijka ſem hann alla adra Chriſtna Menn a Jørdu kallar/ ſamanſafnar / vpplyſer / helgar/ og j riettre Tru til Jeſum Chriſtum vardveiter/ j huørre Chriſteligre Kirkiu/ hn̄ Naduglega fyrergiefur mier og øllum

H iij. Tru-

Truudum Daglega allar Synder/Og a efsta Deige mun hañ vpp vekia mig/ og alla Menn af Dauda/ og giefa mier og øllum Riettruudum j Christo eilijft Lijf/ Þetta eru vissuleg Sañinde.

## Huad lærer þu sierlegt ap þessare Grein ?

Eg lære hier af huad Heilagur Ande er/ Huar fyrer hañ nefnest Heilagur/ og huórt hans Embætte er.

### Huad er Heilagur Ande?

Hañ er su þridia Guddomsins Persona/ eilijflega af Fódurnum og Synenum framfarande/ og er med Fódurnum og Synenum einnrar Vnderstódu og Veru/ huór ed oss veiter og giefur Nad + Krapt/ so ad vier truum a Christum/ + er vor Huggare bæde j Lijfenu og j Daudanum.

### Þui er hann kalladur Heilagur ?

Ecke alleinasta þess vegna/ ad hañ er j sialfum sier Heilagur/ Helldur og einneñ/ vegna sijns Verks + Embættis.

Huerk

Huørt er fierdeilis og einkum Verk
og Embætte hins Helga Anda ?

Pad/ ad hañ helgar oss Mennena.

Huörnen ber hann ad þui ?

1 Fyrst hreinsar hañ vor Hiörtu af öllum Saur Syndaña.

2 Þar næst vpplyser hañ oss med sij'num Astgiöfum/ so ad vier gietum lifad j einum nyum Lifnade/ heilaglega og ostraffanlega.

Kann nøckur med sijnum Verkum af sialfum sier til/ ad fa sanna Jdran og rietta Tru ?

Fiærre er þui. Mansins Jdran og Truen er klarlega Skeinkur og Gæfa Guds/ og Verk hins Heilaga Anda/ huör ed alleina oss hlytur j Andanum ad leida frañ fyrer Christum/ so ad vier verdum hönum jñlifader + plantader.

Huar med helgar sa Heilage Ande oss þa ?

Med Truñe/ edur fyrer Truna a Jesum Christum vorn liufa Lausnara:

Skiedur þa þesse Helgan fyrer Ver dugleika Truarennar ?

J önguan̄ mata / Helldur fyrer Verdugleikan̄ Christi + hn̄s Heilögu Arnan og Forþienustu / huar med han̄ er settur til ed vera oss til Riettlætis / til Helgunar / til Endurlausnar / Enn þessa Arnan og Forþienustu Christi / hliotum vier ad medtaka til vor med Trunne / ellegar verdum vier ecke Sæluholpner.

Quadan kiemur þa Truen a Jesum Christum ?

Hun kiemur vt af Predikan þess Heilaga Euangelij / og af þeim Heilögu Haleitu Sacramentis.

Quad verkar Heilagur Ande fyr er þetta tuentt ?

Hann kallar og saman safnar oss þar med / Han̄ vpplyser oss med sijnum Astgiöfum / Han̄ helgar oss og helldur oss vid Christum Jesum / j eirnne rettre Tru / eins so sem han̄ giörer öllum ödrū christnum Mönnum a Jördunne.

Huer Giade / eda huad Gott hef. um vier af þessu ?

Þetta / Ad hann fyrergiefur oss Daglega allar vorar Synder / og a þan̄

sijdasta

ſijdaſta Dag verdur hann oſs vpp vekiande af Dauda/ og giefur oſs þa eilijft Lijf.

## Quad verkar Heilagr Ande med þm̃ ſem forſma Guds Ords Predikan og þau Heilögu Sacramenta ?

Alls eckert/ Þeir hafa og j Sann leika öngua rietta Tru/nie fyrergiefning Syndanna/ og öngua Von a Holldſins Vppriſu til eilijfs Lijfs.

## Er þa Chriſtus ecke daen þyrer alla Menn ?

Ja ad ſönnu. Chriſtur hañ er fyrer alla daeñ/og aller þeir ſem a hañ trua þeir verda aller niotande hans ærnadar Ords og Forþienuſtu/önguum vndantek num nie fraſkildum. Eñ hiner adrer ſem forſma hans Velgiörninga/ + giöra ſig ſialfa þeirra overduga/ fyrer Vantruar ſaker/ þeſſer hafa eingeñ Not af Chriſti Dauda.

## XXVII.

Huar vill Heilagur Ande helga oſſ?

H v: J Hei-

J Heilagre Christeligre Kirkiu / ed ur j Samkundu Drottens.

Huad er Heilög Christeleg Kirkia ?

Hun er Söfnódur Heilagra Manna / edur allur Christendomurenn / huórn Heilagur Ande hefur hier a Jórdunne kallad / saman safnad / og vpplyst / og helldur hónum vid Christum Jesum fyrer rietta og sanna Tru.

Er Heilog christeleg Kirkia bunden vid nöckurn Samastad ?

Hun er vid önguann Samastad sierdeilis Bundenn / Helldur so / Huar hellst vm Heimenn sem ad Euangelium vt af Christo er kient og predikad hrein og klart / og þau Heilögu Sacramenta eru so hanterud so sem þau eru af Christo Jnnsett og skickud (huór Christur ad er Grunduóllur og Munnur sialfs Sannleikans) þar a medal slijks Mannfiólda / sinna Menn riettrugada Christna.

Huór er Höfud Christelegrar Kirkiu?

Christur Jesus / hann er Höfuded / Enn aller Riettruader þeir eru Lijkam enn þess sama Höfuds.

Þui-

## Þui nefneſt hier Chriſteleg Kirkia edur Chriſtne?

Þuiad/ þeſſe Heilage litle Selſkap er/han̄ er vnder einu Hǒfde/ſem er Herr an̄ ꝛ Lauſnaren̄ Jeſus Chriſtur/ og hefur af hǒnum ſitt Nafn.

Þui er þeſſe Söfnudr nefndur heilög Kirkia?

Ecke þar fyrer/ ad þeir ſie aller Heilager ſem þar eru inne/ Þuiad jafnan eru Vonder og Gooder til ſamans/ hier i Heime/ Ecke helldur þar fyrer/ad þr riettruudu ſie ſyndlanſer og hreiner ǒllungis/ Helldur/kallaſt Chriſtnen̄ Heilög vegna þeſſ Heilaga Anda / huǒr ed hana helgar og hreina giǒrer af ǒllum Syndum.

## Hafa Menn nockud annarſtadar ad vona ꝛ væntaa epter Syndan̄a Fyrergiefningu/en̄ i chriſteligre Kirkiu?

Nei/ Þuiad fyrer vtan chriſtelega Kirkiu er eingen̄ Hialp og eingen̄ Synda fyrergiefning.

Huſu̅ verda Syndernar fyrergiefnar?

Aullum Riettruudum.

Fa

Fa þeir Truarueyku og lijka
Syndaña þyrergiefning ?

Ja ad vÿſu/ Þuiad þeir höndla Herrañ Jeſum Chriſtum/ ſo vel ſem þr ſterktruudu / fyrer huórn ad þeir fa og ódlaſt Syndanna fyrergiefning/ſo vel ſem hiner.

Høſum vier opt ad vænta
Syndaña Fyrergiefningar ?

So opt ſem vier Bidium þar vm j riettre Tru.

Quad eigum vier til ad leggia
ſo ad vier faum Syndan-
na Fyrergiefning ?

Alls eckert/ Þuiad Gud hann fyrergiefur oſſ allar vorar Synder af ſinne Naad ┐ Giæſku/ an allrar Forþienuſtu edur Verſkulldunar Verka vorra þegar vier jdrunſt riettelega.

## XXVIII.

Quar fyrer hliotum vier ad deyia/ fyrſt þad vier hófum fyrergiefning Syndaña?

Þad

Þad hlytur ſo ad ſkie/ vegna þeirra Epterleyfa Syndareñar ſem ad loda vid vorn daudlegañ Lÿkama/ og ecke kunna j þeſſu Lÿfe med óllu af hónum ad fægiaſt/ vtañ þad verde fyrer þeñañ Natturlega Dauda/ huór ad er ſu rietta Purgats og hreinſun Syndaña:

## Eigum vier ad blÿfa þa j Daudanum æpenlega?

Nei/ Helldur munum vier vpp aptur rÿſa/ og lifande verda a ſamt med Aund og Lÿkama.

## Kunnum vier vpp ad rÿſa af ſialfs vors eigen Krapte?

Ecke j nóckurn mata/ Helldur munum vier verda vppuakter fyrer Guds Sonar Rauſt/ aſamt med óllum riettruudum chriſtnum Mónum.

## Huónar ſkiedur þeſſe Vpprïſa?

A hinum ſÿdaſta Deige/ þa Drottenn Jeſus hann kiemur med myklum Krapte/ og j Dyrd ſinne/ til ad dæma Lifendur og Dauda.

## Verda aller Menn þa af Dauda vpprÿſande?

Vissulega j allan mata/ Þar munu vpprijsa Iller og Gooder/Truader og Vantruader/j huorn hellst mata sem þr hafa daed. En þeir Riettruudu sem þa eru lifande/ þegar sijdaste Dagur kiemur/ þeir munu a einu Augabragde/ verda vmskipteleger/ og vpp takast j Sky en j mots vid Christum.

Quar fyrer seigium vier so/ Eg true Holldsins Vpprisu/ Enn ecke so/ Eg true Vpprisu Lijfs og Salar?

Med þui ad hier gietur ecke Salar innar/ þa meigum vier þad hier af læra og þui trua/ ad Salen hun deyr ecke/ hun rotnar ecke/ Helldur geymest hun + vardueitest j Guds Hende allt til hins sijdasta Dags/ Þa mun hun koma fram fyrer Herran Christum asamt med Lijkamanum/og fa og ódlast þad hun verk ad hefur hier j Vórólldunne.

Quørs høfum vier ad vænta epter Vpprisuna?

Eilijfs Lijfs/+ oendalegs Fagnadar

Quør

Huørnenn verdur þui eilijf-
þa Lijfe hættad ?

Pad er ein oſeiganleg Glede/ oȳm-
rædelegur Fognudur og oendanleg Sæ-
luhialp/ huilijka ad eckert Auga hefur
ſied / eckert Eyra heyrt/ og alldrei hefur
j nockurs Mans Hiarta komed/ Hia
huørre Sælu + Sæluhialp/ þta Nat-
turlega ſtundlega Lijf med allre ſinne
Glede og Dyrd / er ecke ad reikna nema
Skugge. Enn j þui Eilijfa Lijfe/ þa
munum vier fullkomlega verda þeckian-
de þa Heilogu Þrenïng/ og hennar blij-
da Auglit ſkodande ad Eilijfu + ct.

Huad ſkal merkia j hia þeſſu
litla Orde Eilijpt?

Þetta/ Ad Fognodur og Glede þſſ
tilkomanda Lijfs / mun ecke vmbreytaſt
edur hafa nockurn Enda / Helldur mun
ſa Fognudur blijfa og vara an Enda
og ad Eilijfu.

Huórneñ þaum vier þad eilijþa Lijþ ?

Gud Almættugur / ſa ſem þeſſa Gle
de og þennañ Fognud hefur til reidt og
bwed j fra Veralldareñar Vpphafe/ hañ
giefur

giefur oss og veiter hetta og ollum Riet trudum j Christo Jesu/ vt af skiærre Nad og Myskunseme.

Seigdu j stuttu Maale/ Huar til þiena þessar þriar hofudgrein er vorrar christelegrar Truar?

Þær kienna oss og avijsa/ huors vier eigum ad vona og vænta af Gude/ huar af vier lærum ad þeckia hañ riett elega/ so ad vier mættum giora bæd eina (enn ecke annad) sem hann hefur bos Boded og skipad j synum tiu Laga Bodordum:

Huad er hellst j mote þessum Truarennar Lærdomi?

Fyrst þetta/ þegar nockur setur sitt trunadar Traust/ ecke a Gud/ hellldur a nockurs Mans Nlagt edur Rijkdom/ ed ur Verdskulldan/ og lætur sier þikia/ ad vegna sinna goodra Verka/ og syns Heilagleika þa hafe hañ fyrergiefning Syñ danna/ og ad Gud sie skylldugur ad giefa honum þar fyrer eilijft Lijf.

Þar næst/ þegar nockur hann veit med sier nockra Synd/ huort helldur hñ er

er heimugleg edur openber og hefur þar af orolega Samuiskü/ Enn efar Guds Naad og Jesu Christi Forþienustu/ + fyrerlijtur Vitnisburd hins Heilaga Anda i Predikunar Embættenu/ so hñ true ecke og verde Saaluholpeñ/ so sem ad giörþu þeir Cain og Judas & ct.

XXIX.

# Þridia Höfudgrein Chrísteligs Lærdoms j Catechismo.

Quar vm hlyder su þridia Høfudgrein Catechismi?

Hun hlyder vm annañ Parteñ þess Heilaga Euangelij.

Quør er sa annar Partur Heilags Euangelij?

Su Heilaga Bæn Fader vor.

Huad kienner oss þesse Bæn?

J. Hun

Hun kiemer oss riettelega ad bidia og akalla Gud.

## Huar fyrer fylger Bænen næst epter Truna?

Þuiad Bænen hun er næste Audxtur Truarennar / Og Truen hun vex og styrkest fyrer Bænaakalled Gudz Ord + þau Heilögu Sacramenta.

## Huad kienner Euangelium oss vt af Bænenne?

Þad kienner oss / huörsu ad vier j öllum vorum aliggiande Naudsynium eigum ad akalla Gud Almattugan af öllu Hiarta / og bidia hann vm Hialp + Huggun / og allt þad sem Naudsynlegt er til Lijfs + Sælar / Og vier eigum fullkomlega ad trua og treysta þar vpp a / ad Gud hann bænheyre oss. Vier eigum og lijka eirnen ad þacka Gude af öllu Hiarta / jafnliga fyrer alla hans Velgiörninga.

Huad er ad bidia?

Þad er ecke annad enn ad hafa eitt innelegt Samtal vid Gud sialfan / + til hans ad Andvarpa og kalla / ecke allein-

asta

askа med Munnenum / helldur og eirnenn med Hiartanu / og med fullkomlegu trunadar Trauste vppa Forþienuſtu og Verdskulldan Jesu Christi Guds Sonar

Huörsu margföllð er Bænen?

Herrañ Jesus / Johañ. 4. Cap. Talar vm tuöfallda Bæn. Ein skiedur j Anda og Sañleika / Eñ önnur er faleñ ecke nema j Ordum einum / þa Ordeñ ad eins ganga af Tungunne / so Hiartad er þar ecke med: Edur so / Þegar Menn hyggiast med Bænum og Lesningum ad forþiena af Gude / þad þeir verde bænheyrder / so sem ad giöra Papistar / Gydingar og adrer Heidingiar / huörra Bæner ad verda til Syndar.

Huørneñ giefur þu truad / ad þijn Bæn verde bænheyrd?

Þegar eg treyste ecke vppa miñ Verduglleika / ecke vppa Arnan nie Fyrerbon Heilagra / edur nöckra añara Maña / hu ad eckert stodar / Helldur vppa Guds Bod og Bifalning og hans Loford og Fyrerheit / og helld mier þar stadfastlega vid.

Jiij. Huar

## Huar vppa stendur soddan
### Bæn og Loford?

Alleina a vorum linsa Lausnara + Saluhialpara Jesu Christo/Huiad hū hefur skipad oss ad bidia j sijnu Nafne og hefur lofad pad skyllde verda jæ og Amen/ Pad er/ad vier skylldum verda bænheyrder:

## Huad pocknast Gude hellst
### j Bæna akallenu?

Pegar Madur bidur af riettre sann re Tru.

Huorneñ kantu ad bidia j riettre Tru?

Pegar eg bid j Nafne mijns Drottins og Lausnara Jesu Christi.

## Huad er ad bidia j Jesu Christi Nafne?

Ad hafa stadfasta Tru og efa ecke/ ad Gud Almattugur vt af Nad + Myskun/vegna sijns Elskulega Sonar Jesu Christi vilie fyrergiefa oss allar vorar Synder/ og veita oss allt pad sem ad vi er purfum vid/+ oss er gagnlegt til Lijfs og Salar/ Og ad hañ vilie vera oss eiñ

Nad-

Nadarſamur Fader / og epter þetta Lijf medtaka oſſ til ſijn/ og lata oſſ verda ſijn Börn og Erfingia eilijfrar Sæluhialpar.

### Enn ef þu kant ecke ad bidia med ſo ſterkre Tru?

Þa ſkal eg gióra ſo ſem Fadereñ Su einſins giórde/ Marci 9. Cap. Þa hann kallade vpp med gratande Róddu/ ſeigande/ Eg true Herra/ enn hialpa minne Vantru/ Eg vil og ſeigia eins og Lærefueinarner Chriſti Luc. 17. Herra ſtyrk þu vora Tru/ So ſkulum vier vita ad veyk og lijtel Trua/ er * eirnen Trua.

### Meiga Menn bidia vm nockra oſæmelega Hlute?

Langt er þar fra/ Madur ſkal ecke bidia vm nóckurn þañ Hlut ſem ad er j mote Guds Dyrd og hans Orde/ j mote Kiærleika Naungans / edur ærligre Sidſeme.

### Skal Madur opt ſinnis bidia?

Ja/ Oaflætanlega edur alla Tijma/ einkum þegar Nadur ſtendur vpp

og fer til Sængur / ꝛ þegar Madur fer til Bords / og fra.

### Huorier Hluter ſkulu hellſt koma Manne til ad bidia ?

### Þrijr.

1 Fyrſt er Guds Skipan/Bod ꝛ Bifalning/ad akalla Gud j öllum Motgange og allre Neyd.
2 Þar næſt/Fyrerheit Guds/þad hn̄ vilie viſſulega heyra vorar Bæner.
3 Þad þridia / margfalldar Naudſyniar Neyd og Motgangur ſem liggur a öllum Möñum.

## XXX.

### Huørnen eda med huørium hætte eigum vier ad bidia?

So ſem Drotteñ vor Jeſus Chriſtus hefur ſkipad ꝛ kient oſſ ad Bidia.

Huørneñ hefur hañ kient oſſ þad ?

Þad finnur þu Matth. 6. ꝛ Luc. 11. Cap. Þa hañ ſagde ſo til ſiña Læreſueina / Þegar þier vilied Bidia / þa ſeiged ſo.

Fader

Fyrsta Bænenn.

Huőr er su þyrsta Bæn?

## Helgest þitt Nafn.

Huad er þad?

Guds Nafn er sannarlega j sialfu sier Heilagt/ Enn vier bidium j þessare Bæn/ ad þad skule einnenn helgast hier med oss.

Huőrnenn skiedur þad?

Nær Guds Ord kiennast riettelega og hreinlega/ og vier epter þeim lifum heidarlega/ so s Gudz Bornum hæfer/ Þar til hialpa oss O elskulege Fader a Himnum/ Enn huør sem ødru vijs kienner edur lifer/ enn Guds Ord bydur sa vanhelgar Guds Nafn medal vor/ Þar fyrer vardueit oss elskulege Himneske Fader.

Huad kallast/ edur huad er Guds Nafn?

Ecke alleinasta hans Heilaga Halesta guddomlega Nafn/ so sem hann nef

nest

nest j Heilagre Ritningu/ ꝛ ct.
Skoda anad bodord.

# Vm huad bidur þu j þessa-
re þyrstu Bæn ?

Vm fiora Hlute sierdeilis.

Fyrst:

Ad Gud Himneskur Fader vilie giefa oss sitt Heilaga Ord hreint ꝛ omeingad/ fyrer huört aller Hluter verda oss Heilager ꝛ heilsusamer/ Og ad hañ vilie vardueita oss myskunsamlega fyrer öllum röngum Lærdome.

Þad anad.

Ad hann giefe oss og eirneñ þar mz dygdarsama og trua Predikara/ þeir ed oss kienne ad þeckia Guds Heilaga Nafn/ og þad ad heidra og Vegsama.

Þad þridia.

Ad hañ vilie hialpa oss og leida þar til/ ad vier kuñum ad lifa epter hans Orde heilaglega/ so ad hans Nafn verde ecke lytt nie lastad a medal vor.

Þad siðasta.

Ad Gud villde til Skañar giöra/ ꝛ
ad

ad öngun verda läta Nafn og Vilia
þess vonda Diöfuls og allra annara jll-
ra Manna/ sem ad vilia hindra oss fra
Kynningu Guds/fra hans Dyrd + vorre
Sæluhialp.

## Hvernenn verdur Guds Nafn
mest vanhelgad ?

Þegar annad er kient og predikad
enn Guds Ord. Þar næst/ þo ad Guds
Ord sie hreint og klart kient og predik-
ad/ ef ad Menn lifa ecke heilaglega epter
þui so sem Guds Börnum hæser.

## XXXII.



Auñ?



Þesse Figura heyrer til Actorum ij. Capitula

Aunnur Bæneñ.

Huórnen hlyder þesse Bæn ?

## Til kome þitt Rijke:

Huad er þad ?

Guds Rijke kiemur ad søñu añ vorrar Bænar af sialfu ser til/ Enn vier bidium j þſſare Bæn/ad þad eirneñ kome til vor.

Huórnen skiedur þad ?

Nær

Nær vor Himneskur Fader giefur oss sinn Helga Anda/ sa sem oss veiter þa Nad/ ad vier truum hans Heilaga Orde/ z lifum heilagliga/ Hier stundlega/ enn añars Heims eilijflega.

Huad er Guds Rijke?

Hier a Jördunne er þad christeleg Kirkia og Samkunda / Eñ j ödrum Heime er þad eilijf Sæluhialp.

I huøriu er Guds Rijke komed z saled hier a Jördunne?

J þui/ Ad Gud Himneskur Fader leide oss fyrer sinn Heilaga Anda / epter sijnu Orde/ og ad hañ giefe oss eitt audmiukt Hiarta/ til ad trua hans Orde/ og þui Hlydne ad veita.

Nuar vm bidur þu j þessare Bæn?

Vm fiora Hlute.

Fyrst

Ad Gud vilie giefa oss sitt Ord og sijn Heilögu Sacramenta/ huar jnne ad hans Rijke er folged og faled/ og ad hñ þad sama Ord og sijn Sacramenta vil

ie j

ie j hia oss blijfa læta.

Pad annad

Ad han villde vpplysa vor Hiörtu med sijnum Heilaga Anda / so ad vier gietum truad hans Orde af öllu Hiarta / + lifad þar epter hier a Jördunne / gudrækeliga / og blijfa so stöduger þar vid allt til Andeloka.

Pad þridia.

Ad Gud han villde og eirnen lijka af sinne Mijskun giefa þeim sitt Ord sem þad ecke ædur hafa / og vpplysa þa med sijnum Heilaga Anda / so ad þeir hlyde Ordenu / og hegde sier epter þess Hliodan.

Pad fiorda.

Ad Gud villde læta snarlega koma þann sijdasta Dag / og giöra Enda a þui Rijke sem Andskoten hefur hier j Heimenum / Enn vppbyria sitt eilijft Himneskt Rijke / so ad vier mættum j hia hönum blijfa og vera eilijflega.

Er þar og eirnen Guds Rijke / sem Guds Ord er ecke aktad / og þar sem þui er ecka truad ?

Lang t er þui fiærre / Helldur rijker Diof-

Diöfullen̄ þar/ og hann ſtyrer þar öllu epter ſijnum Vilia / og helldur Börnum Vantruarenar föngnum j ſijnū Snörū:

## XXXIII.

Þesse Figura heyrer til



xxvj. Capitula Matthei

### Þridia Bænen.

Seig þram þa þridiu Bænena ?

## Verde þin̄ Vilie ſo a Jördu ſem a Himne.

Hvad er þad ?

R.

Guds

Guds goodur og nꝺdugur Vilie ver dur/ þo vier bidium þeſſ ecke/ Enn vier bidium j þeſſare Bæn/ Ad hans Vilie verde a medal vor.

Huörnen̄ ſkiedur þad ?

Nær Gud onyter og hindrar øll jll Raad og Vilia/ ſem þui vallda ad Guds Nafn vanhelgaſt / og hans Rÿke naer ecke til vor ad koma/ So ſem er Diøfullen̄/ Heimuren̄ ꝛ vor holldlegur Vilie/ Helldꝛ ſtyrker han̄ oſſ ꝛ ſtøduga giører j ſÿnu̅ Ordu̅/og Trunne/ allt til vorra æfeloka/ Þetta er hans Myſkunſamur og goodur Vilie.

Huad er Vilie Guds ?

Guds Vilie er þad/ ad vier ſkulum heyra hans Heilaga Ord/og lifa þar ep ter/ Þar med ad vera þolenmoder/ vnder Kroſſenum og Motgangenum/ og ſetia allan̄ vorn Vilia til Guds/ med Sonarlegre Hlydne/ og verda vm ſÿder fyrer Truna a hans Son Jeſum Chriſtum riettlæter ꝛ eilÿflega Sæluholpner. Þetta er Guds Vilie.

Vm

## Um huøria Hlute bidur þu j þessare Bæn ?

Um þria Hlute sierdeilis.

Fyrst.

Ad Gud hañ vilie giefa oss sinn Hei laga Anda / so ad vier kyñum af Hiarta ad trua þui øllu sem hñ hefur lofad oss / fyrerheited j sijnu Orde.

Pad annad.

Ad hañ vilie giefa oss / ad huør og einn j sijnu Kalle og Embætte / giøre þ hønum er skylldugt / huad Gud hefur Boded og Bifalad / og huad hañ vill vera læta / Eñ fordest allt þad sem Gud hefur Bannad.

Pad þridia.

Ad vær mættum þolenmodlega lijda allt þad sem hañ af Føðurlegre Aast og epter sijnum goodum Vilia vppa oss leggur / edur koma lætur.

Huad er ad lijda þolenmodlega ?

Ecke ad vera so sem Stockur edur Steinn / og giefa sig ecke vid nøckra Kuøl eda Pijnu / so sem giørdu þeir Stoici

K ij. fordst

fordum/ og nu j Dag giöra Anabaptiſt ar. Helldur ſo/ Ad Madur ſie med goo du Giede vid Gud vnder Kroſſeñe + Kr oſſenũ/ huõr ed ecke freiſtar neins framar eñ hõnum er mógulegt ad lijda / Kurre ecke nie murre a mote hõnum / efe ecke hans Giæſku / leite ecke nóckra Lǽkninga edur þeirra Rada/ ſem Gude og hans Vilia eru a mote/ Helldur til Bidie + akalle haũ j Neydeñe/ og true fyrer vijſt ad Gud haũ mune giöra einn gagnlegaũ og huggunarſamlegaũ Enda a Hõrmungunñe + Neydenne/ vm ſijder.

## Nuørier eru þeir Ovuner ſem hindra Guds Vilia?

Sa fyrſte er Diöfulleñ.

Sa annar er Heimureñ.

Sa þridie er vort eigenlegt ſpillt og fordiarfad Holld og Blod.

## Nuad vill/ og huad aſtundar Diöfullenn?

Þetta/ ad eingenn ſkule tiettelega kienna/ nie trua/ nie lifa/ + eingeñ ſkule verda Sæluhólpeñ.

## Nuar med giører Diofulleñ þeſſa Hindran?

Med

Med sijnum Slægdum + Vielum/ + med sijnum elldlegum Pijlum/ j mote þeirre fyrstu og annare Töblune Gudz legs Lögmals.

Huad er Heimurenn?

Hann er sa Stadur/ sem er fullur med vonda Men/ Guds Ovine og Last ara/ huörier ed Dióflenum veita sijna Pionustu.

Nuar med hindrar Heimurenn Guds Vilia?

Med allskyns Hreckuijse + Hneyxl önum/ med illum Epterdæmum/ og a eggian til Syndanna.

Huad merker Hollld og Blod?

Pad merker allan Mannenn/ med öll um sijnum natturlegum Kröptum Lijfs og Sælar/ med huörium ad ecke er nema illt eitt.

Huar med hindrar Hollded Vilia Guds?

Med Aast og Elsku Girnd og Fijsn til hins Vonda / og med Ovillo + Trega til alls þess hins Gooda.

 Nuor-

Huørnen skiedur Guds Vilie a Himnum/ad þu bidur hañ sku-
le eins verda hier a Jörduñe?

So sem þeir Heilogu goodu Guds Einglar/ og allur Himneskur Her giör-
er fullkomlega Guds Vilia og sijna Bi-
falning/ med storre Glede. So bidium vier christner Menn og eirneñ j þessare Bæn/ ad Gud Blessadur vilie giefa oss sijna Nаад þar til/ad a medan vier lif-
um hier a Jörduñe/ þa stande huör og eiñ j sijnu Kalle og Embætte sem hön um ber/ og Guds Vilie er til/ og verde vm sijder so riettlatur og Gude hlydug-
ur og þeckur/ so sem ad eru þeir Helö-
gu Einglar.

Kuñum vier ad giora þetta a med-
an vier j þessu Lijfe lifum?

Nei/ecke/ Vier erum alls osueyker og vanmegna þar til/ og berum nu enn þañ gamla Adam (huör ed oduglegur er til hins gooda/ eñ til þess vonda hne-
igdur og reidubweñ) a Halse vorum/ allt til Grafareñar. Og vm þetta klaga aller Heilager/ og þar fyrer hefur Chri-
stur

ſtur kient oſſ og ſkipad ad bidia med þeſſum hætte.

XXXIIII.



Þeſſe Figura heyrer til vj. Capitula Johannis

Fiorda Bænen.

Huórnen hlyder hun ?

## Gief oſs j Dag vort Daglegt Braud.

Huad er þad ?

Gud giefur ad ſønnu daglegt Bra-

ud/jafnvel vondum Mønum/ þo ad vi-
er bidium þess ecke/ Enn vier bidium
hier j þessare Bæn/ ad hañ læte oss
vort daglegt Braud vidurkieña/ z med
þacklæte til vor medtaka.

Huad kallast Daglegt Braud?

Þad er allt þad sem naudsynlegt er
til þessarar Lijfs Biargar/sem er Ma-
tur og Dryckur/Klæde z Skiæde/Hws
og Heimele/ Taudur og Eingar/Kuik
fienadur/Goots z Peningar/good Eig
enkuinna/ hlyden Børn/dygt Þionustu
folk/Truer og Fromer Yfermenn/good
Almwgans Stiorn/ Hagstæd Vedrat
ta/Fridur/Heilbrigde/Sidseme/Heidur
gooder Viner/og trufaster Nagrañar/
og allt annad þessu lijkt.

Þui seiger þu/ Giep?

Þad Ord kiemer oss og amminer/
ad vier aller huór med ódrum erum þur
fa menn Drottins Guds vors/ So ad
allt huad vier hófum/ huad hellst vier
faum/ þad kiemur alleinasta fra Gude
vor-

vorum Himneska Faudur.

Þui seiger þu/ Oss?

Gud vor Himneskur Fader hañ veit allra best huörs og huad myͤkels huör ꝛ einn þarf til sinnar Atuiñu/og þad hañ hefur hönum fyrerhugad/ og vm þad sama bidium vier j þessare Bæn.

Þui nefner þu daglegt Braud?

So ad Gud hñ vilie oss Dag fyrer Dag giefa og veita vort Vpphellde/vora Atuiñu og Lijfsins Næring/ og oss nꝏduglega varduelta fyrer þeirre leidu Agirnd(sem ad er Root og Vppsprettra alls jlls)ꝛ fyrer sꝏrre Sinkꝛ Bꝛukforg

Þui seiger þu/ Gief oss/ eñ ecke/ Giep mier?

Þuiad vier erum aller samañ jñbyrd is Brædur og Systken huör med ödrum/ Þar fyrer Bid eg Gud vm Braud ꝛ Atuinnu/ so vel añarra vegna sem sialfs mijns.

Huad merker þta litla Ord/ J Dag?

Þar med vill vor Herra Jesus kienna oss/ ad huör og eiñ Dagur bere sijna Vmhyggiu / Þar fyrer/ Ef ad nöckur

ottast Gud / og er j sijnu Kalle og Embætte trur og jden / ꝛ þar med Fromur / þa lætr Gud hn̄ alldrei af Hugre deyia.

Sie þad so / Quadan kiemur þa sa kiölbe Þurþamanna sem er ?

1 Fyrst af þui ad Menn eru Bænrækꝛtarlauser / og bidia Gud ecke.

2 Menn hafa ecke Tru og Traust a Gude / Og þacka hönum ecke af Hiarta fyrer sijnar Giafur / þa hann hefur þær giefed.

3 Marger eru later ꝛ leider / vilia ecke vinna sier Mat / ecke þiona med Tru og Dygd / þui lætur Gud þa Neyd lijda.

4 Marger eyda og vtspeña þui sem Gud hefur þeim giefed / og verda þar fyrer aumer og armer Þurfameñ.

Seig þu j stuttu Maale / Quar vm bidur þu j þessare Bæn ?

Vm þria Hlute.

Fyrst:

Ad Gud vor Blessadur Fader / hann vilie af sinne Naad og Giæsku giefa oss allt þad sem oss er naudsynlegt til þessa stüdlega Lijfs vpphelldis / Sem er Matur og Dryckur / Klæde ꝛ Skiæde / ꝛ ct.

Vier

Vier bidium ad hañ giefe oss huørke of lijted nie ofmijked/ Snógt ad seigia Vier bidium vm allt þad sem til heyrer veralldlegum Lagariette/ og allt þad sem ahrærer Bwskaparlaged/ og þad þui vid vijkur.

Þad annad

Ad Gud hann villde oss vt af sinne Naad og Myskun þad veita/ ad vier þ jatum og medkieñum / ad vier hófum af hónum alla Hlute/ og ad hann læte allt þad hñ veiter ꝛ giefur/ oss vel luckast/ ꝛ ad goodre Blessan verda.

Þad þridia

Ad hañ vilie giefa oss og eirneñ þ/ ad vier mættum fara med hans Gæfur epter hans guddomlegum Vilia/og þac ka hónum jafnañ fyrer þær

Huórneñ skiedur þad

1 Þegar vier jatum og vidurkieñum oss hafa af hónum einum og óngum ódrum þeiged og medteked alla Hlute/og lofum og dyrkum hañ þar fyrer.

2 Þegar vier neytum gudlegra Aastgiafa/ oss og vorum til Vpphelldis og Þarfinda.

3 Huad þa verdur afgangs / og vier

ecke

ecke þurfum til vors Hws Uppelldis / ad vier giefum þar af þin̄ Fatæka Lazaro / Þo so / ad þeir Þurftugu fae þar af ecke Tilefne / ad vera sdiulauser og latet / en̄ vier sialfer lijdum Skort.

XXXV.




Fimta Bænen.

Huðr er hin fimta Bænen̄ ?

Og fyrergief oss Skullder vorar / so sem vier fyrergief-
um

um vorum Skulldunautum.

Huør er riett Meining þessarar Bænar ?

Vier bidium j þessare Bæn/ ad vor Himneskur Fader eige vilie alijta vorar Synder/ so ad hañ fyrer þeirra Skulld vilie eige veita oss vora Bæn/ þuiad vier erum allra þeirra Hluta omakleger sem vier vm bidium/ høfum og eige helldur þad verskulldad / Helldur ad hann vilie oss þad allt fyrergiefa/ fyrer sijna eigen lega Nææd/ þuiad daglega syndgust vier og forþienum eckert añad eñ Sträff So vilium vier og eirneñ þar j mot fyrergiefa af Hiarta þeim sem oss j mote briota/ og giøra þeim gott sem vid oss misgiøra.

Huad merker þetta Ord Skullder ?

Þad merker vorar Synder + marg falldleg Lagabrot/ af Guds Heilógum Bodordum/ huar med vier hófum Gud til Reide reitt og modgad/ huórt sem þessar Synder eru oss vitanlegar ellegar ovitanlegar.

Huar

Huar fyrer bidur þu vm Fyrergiefning ✝ vppgiöf Skulldaña/gietum vier ecke sialþer þær bitalad ?

Olldungis og j allañ mata er oss þad omögulegt ad bitala eda bæta/eda nöckra fullnadar Boot ad giöra fyrer vorar Synder/ so sem sagt er j tiu Gudz Bodordum. Þar fyrer bidium vier ad Gud Himneskr Fader fyrergiefe oss þær vegna sinnar Giæsku og Myskunar.

Huar fyrer kuedur so ad Orde/Fyrer gief oss/ eñ ecke/Fyrergief mier ?

Þuiad vegna brodurlegs Kiærleika þa er eg og skylldugur / ad bidia fyrer Naungans Brotum ✝ Misverkum.

Huörs bidium vier j þrere fimtu Bæn?

Vier bidium vm tuo Hlute.

Fyrst.

Vm Nad og Myskun Gudz/✝ vm fyrergiefning Syndanna.

Þar næst.

Ad Gud hann vilie eirnenn giefa oss brodurlegañ Kiærleika vor a medal jnnbyrdes/ So ad vier giarnsamlega ✝ af Hiarta forlatum og eirneñ fyrergiefum

vorum

vorum Skulldunautum/ og giörum þiñ gott/ og vitum þar med/ ad Gud j Himnenum hiñ hefur og eirneñ fyrergiefed oss.

Huörier eru vorer Skulldunautar ?

Ecke þeir sem med veralldlegum Skulldum eru vid oss bundner/ helldur þeir aller/ sem oss hafa a mote giört og broted/ huad helst sem þ kañ ad vera.

Forþienum vier nockud Syndaña fyrergiefning hia Gude fyrer þ þott vier fyrergiefum vorum Naunga ?

Langt er þui fiærre/ helldur so/ Med þui ad Gud Drotteñ hann hefur fyrst vt af sinne Nad og Myskun fyrergiefed oss allar vorar Synder/ þa erum vier skyllduger ad vera lijka eirneñ myskunsamer vid vorn samchristeñ Naunga/ audsyna hönum Kiærleikañ/ og fyrergiefa hönum af Hiarta/ og vera hönum allt til gooda.

XXXVI.

Siøt-

iiij. Capitula Matthei.



Þesse Figura heyrer til

Seig fram̃ þa siöttu Bænena ?

## Og eige leid þu oss j Freistne.

Huad er þad ?

Gud freystar ad sönu einskis Mans/ Enn vier bidium j þessare Bæn/ ad Gud vilie vernda oss og vardueita fyrer Andskotans/ Heimsins og Holldsins Viel-

Vielum/so ad vier hrøpum ei fyrer Þr=
ra tilleyjing j Vantru nie Druænting/
edur adrar Storsynder og Lostu/ Og
þo ad vier freistunst af øllu þessu/ þa
læte hañ oß vm sijder meiga yfer vinna
og Sigrenum hallda.

Huad kallast ad freista ?

Pad er ad reyna/profa nóckurn/huz
ór hans Vilie er til eins edur añars.

## Vm huad bidium vier j
### Þessare Bæn ?

### Vm tuent.

Fyrst bidium vier/ad Gud hañ vil
le myskunsamlega varðueita oß fyrer
allre Freistingu/bæde andlegre og lij=
kamlegre.

Par næst/ Ad ef so kañ skie/ad vor
verde freistad/og eitt huad strijder a oß
(sem alldrei er ovijst) þa villde hann
styrkia oß med sinne Nad / og hall=
da oß vid/so ad vier føllum ecke j Van=
tru/Efasemd eda adrar storar Synder
og Glæpe/Helldur ad vier sieum stød=
uger/ og faum vm sijder Sigur og Yf=
L. eruiñing

erviñleg a óllum Freistingum.

Huørneñ seiger þu j Vtleggingunne/ ad Gud freiste einskis Mans ✝ ct. Enn þo stendur skrifad/ad Gud hafe freistad Abrahams/og Christur hañ freist/ ade sinna Læresueina ?

Þessa hefur Gud Drotteñ reynt og profad/ Ecke til jlls/ helldur þeim til hins besta/ so sem hañ giórer vid marga enn nu a þessum Dógum.

Er þa Freistingeñ edur Freistneñ margþólld ?

Hun er tuefólld.

Su hin fyrre er ein fódurleg Reynsla huar med Fadereñ hañ vill sia/ huórsu kiærañ ad Barned hefur Fódureñ/✝ huórneñ ad þad vilie skicka sier vid hann/ Med soddañ mote reyner Gud sijna Vine/ med Krosse og Notgange.

Su ónnur er heiptar Freisting/ þa einn Ovinur freistar annars/ so hann fae hañ fordiarfadañ ef hañ gietur/ Med soddañ moote leyfer Gud optsinnis ad Diófulleñ freiste vor/ Og þesse er su Freisñe/vid huórre vier bidium Gud oss ad forda.

Kuñ-

Kunnum vier ad verä æn freistingar ?

Nei / Þuiad so lenge sem vier lif-
um j Heimenum / þa erum vier ecke fyrer
vtan Freistaner.

## Huad hefur Diøfullen̄ sier til Sty-
rks og hialpar / þegar hn̄ freistar vor ?

Fyrst Heimen̄ / sem er hans eigenlegt
Rÿke / Þar med lÿka eirnen̄ vort Synd-
umspillta Holld og Blod.

## Huørnen̄ geingur til vm
þessa Freisting ?

Fyrst vpphuetur og æggiar Diøf-
ullen̄ oss til Syndaren̄ar. Þar med þa
er Heimuren̄ fullur med Synder og Glæ-
pe / og allskyns Hneyxlaner. Vort Holld
og Blod er hneigt til hins vonda / og hef
ur Girnd og Lyst til Syndaren̄ar / og læt
ur Diøfulen̄ suÿkia sig.

XXXVII.

Þesse Figura heyrer til xv. Capitula Matthei.



Huør er hēn siøunda og syđasta Bæn?

## Helldur frelsa oss fra jllu.

Huør er Vtlegging hier vppa

Nier bidium vier alls j einu j þess-
are Bæn/ ad Fader vor Himneskr/ frel-
se oss fra øllu jllu til Lijfs og Sælar/ z
ad sijđustu þa vor Daudastund er kom-
eñ/ giefe hann oss goodañ Afgang/ og
mysk-

myſkunſamlega take oſſ af þeſſū Eym dar dal til ſijn j Himerijke.

Huad lærum vier aþ þui Orde/ Frelſa

Þetta/ Ad aller Mem eiñ med ødrum/ eru j þeſſū Heime mørgum jllum Hlutum vndergiefner/ og eru af þeim þiader og þuingader/ Þar fyrer biðium vier j þeſsare Bæn/ ad vor elſkulegur ⁊ himneſkur Fader vilie af ſinne Naad og Myſkun leyſa og frelſa oſs þar j fra.

Þad Jlla/ huøriu vier erum vnderokader og lagder/ Er þad margþallt?

Þad er ſierdeilis og eiñkum ferfallt.

1 Þad fyrſta ahrærer Lijkamañ.

2 Þad annad ahrærer Sælena.

3 Þad þridia ſnert: Gods edur Eign Mannſins.

4 Þad fiorda ahrærer hans Heidur og gott Rykte.

Huad Jllt er þad ſē Lijkamañ ſnertur?

Allra handa Sotter og Siukdomar/ Meinſemd ⁊ ſkade Lijkamans.

Huørt er þad vonda og jlla Sælareñar?

Þad er Diøfulleñ/ vond Samuiſka/

 vanrru

Vantru/Idranarleyse/Auruilnan/Brad ur Daude/ Heluijtis Elldur/ og eilijf Fyrerdæmning.

Huørt er þad Illa sem snertur Eign og Audæfe?

Allskyns Tion og Skade a Gotze Audæfum/Eignum/ Peningum/ og a Mañsins Næringu ꝫ Vpphellde/ huórt helldur þ skiedur af Vatne/Ellde/ Vedrum edur voueifligum Skada/ edur fyr er vondra Manna til stilling.

Huad jllt er þad sem snertur æru og Heidur Mañsins?

Sman og Skam̃/vont Rykte/Hroop/Brixl/Ófrægd/ Vmlestur/O hrodur/ jll Bakmælge/ Ærukreinking/ ꝫ allt annad þuilijkt.

Seig þu stuttlega/ Vm huad bidur þu j þessare sijdustu Bæn?

Vm þrent.

Fyrst.

Ad Gud vor Himneskur Fader vilie myskunsamlega leysa ꝫ frelsa oss fra óllu jllu Lijfs og Sælar/ Goots og Heidurs.

Þad

Pad annad.

Ad hañ vilie oss ad sijdustu/pa vor Daudastund kiemur/ giefa eiñ goodañ + christelegañ Afgang af þessum Heime.

Pad þridia.

Ad hañ vilie af Naad siñe og Myskun/taka oss wr þessum Eymdardal til sijn/ vpp j Himerijke / til eilijfs Lijfs og Fagnadar.

## Quad meinar þu med þessu Orde/ Ad sijdustu?

Pad merker/ Þegar vier j þessum Eymdar dal/erum epter Guds Vilia nærre lage velkter/pijnder/ plagader/ + þa Drotteñ vill giöra enda þar a.

## Quar fyrer seiger þu/ Þegar vor Stund kiemur?

Þuiad Gud Almættugur/ sa sem oss hefur giefed Lijfed og Andañ/ hann hefur og asett Tijmañ huörsu leinge vier skulum lifa/ + huönar vier skuluñ deyia.

## Quad merker þetta Ord Godan Afgang?

Ad eg mætte j eirnre stödugre Tru

og med Bæna akalle til mijns Lausnara og Frelsara Jesum Christum sofna + hu- ijlast med hægu Andlæte / + minn Anda giefa og bifala j hans Blessadar truar Hendur.

## XXXVIII

### Huørnenn hliodar Nidurlag- ed a Fader vor ?

# Þutad þitt er Rijked / Þinn er Krapturenn og Dyrden ad eilijfu / Amen.

Þui leggiast þesse Ord hier til ?

So sem ad þau fyrstu Orden j Fader vor kienna oss / og j liose læta Guds vors Födurs födurlegt Hiarta + hans Mijskun / ad hann vilie oss vissulega Bænheyra. So jatum vier hier j Nidur lage Bænareñar / ad hañ er sa alleina sem oss kann ad hialpa vernda og vardveita / Þar fyrer eigum vier ecke ad trey sta edur forlæta oss vppa nein vor Verk edur Forþienan nockra annarra.

Huad merker þetta Ord / Rijked ?

Rijk

